Erichsen

Athugaverdt

vid

# Sætta-Stiptanir

og

# Forlíkunar-Málefni

## á Islandi.

# Handqver

Embættismanna, Sættanefnda, Málsparta, etc.

Skrifad og útgefid af
Dr. Juris Magnúsi Stephensen,
Konúngl. Hátignar Conferencerádi og Jústitiario
í þeim konúngl. íslendska Landsyfirretti, etc.

Videyar Klaustri, 1819.

Prentad af Faktóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfjörd.



# Inngángur.

Í Formála Handbókar minnar fyri hvörn Mann, útgéfinnar 1812, og á hennar bls. 237, hefi eg heitid ad bjóda Almenníngi frekari Vegleidslu, bædi fyrir vorar Sættanefndir og adra, sem þeirra leita þurfa, eda um Sættamál ad dæma eda sýsla, innihaldandi ávísun þeirra Laga og útlistun skyldna, er lúta ad Forlíkunar málefnum. Ekla og dýrleiki pappírs undir ümlidinni styrjaldar tíd og allt til þessa, hefir tafid hennar útkomu híngad til, þó hún, undir eins og Handbókarinnar handrit mitt, væri til prentunar búin. Üm sídir birtist hún nú, aukin og lögud eptir seinustu, mér kunnu, ümbreytíngum.

Ad þvílík Vegleidsla sé færstum óþörf, sïst vorum Sættanefndum, mun hverr sá skynugur játa, sem yfirvegar, bædi hversu árídandi

þad mikilværga verk sé, sem Nefndum þeim er á hendur falid; en — verdi þad misjafnlega af hendi leyst — hvar uppá dæmi finnast — hversu háskalegt fyrir rétt og velferd og rósemi manna þad verda kunni, og undir eins þan meiri vandrædi, sem hér í landi eru almenn, enn í Danmerkur ríki annarstadar (sjá skíríngargr. til §. 6) med ad fá vel hæfa og færa menn, til ad standa réttilega fyrir því verki, þar sem fleirsta Forlíknar-menn vora brestur, enn þótt líklega aldrei gódann vilja, þá samt naudsynlega þeckíngu á løgum, án hverrar vel grundvøllud heilrædi og sátta-tilløgur þó trauðlega verda bodin þráttandi málspørtum, eda med æru, egi réttur þeirra ecki ad spillast, og sá fáfródi tapa jafnvel besta málsstad, fyrir óviturlegar tillegur, enn þótt hreckjalausar, sem eptirá misvyrdast af mørgum þeim, sem betra vit bera til ad meta þeirra fásinnu. Þess vegna, ef sjálfa løgspaka menn allopt ágreinir í dómum um rétt og skyldu og sekt manna, og jafnvel þessum, væri mjøg svo vandfarid med sátta tilløgur vid einfalda menn, sem af oftrausti til hygginda yfirburda þesshattar Yfirmanna og þeirra einlægni, einatt kunna ad láta þeirra fortølur leida sig til rángsnúinna sætta,

til útláta fyrir meinlaust og litt saknæmt, sem væri það afbrot, og að þola annara pretti, ójøfnuð og yfirgáng bótalaust, hverju hættulegri munu þá ecki hinna ómerkar fortølur og spár um máls-afdrif, þeirra afmálan, og óviturleg heimfærsla réttar og laga uppá fyrirkomandi málefni opt verda, sem litid eda alls eckert skynbragð hafa á løgum eda rétti? Vorar Sættanefndir ættu því, med samvitsku vidqvæmni, ad fordast þess-háttar, optar villandi enn frædandi, laga heim-færslur uppá málaþrætur, sem leggjast til Sætta, og einúngis med athygli hlýda á, med greind, hreinskilni og hógværd leida málsparta til fridar og forlíkunar, einkum med alúd þann, til ad hafna ecki sanngjørnum sáttabodum, á hvørra málstad þeim, eptir bestu sannfæringu, midur lítst; med lempni leida málspertum fyrir sjónir illar afleidíngar af þrætugirni, innvortis óánægju og óvild kunníngja og vina á milli, ósæmd, tíma og fjártjón, og óvissann hag eda sigur vid mædu- og útdrags-samt málastapp, hvers vegna einn fugl í hendi, sé opt betri enn tíu á flugi, og því ecki verdt ad hafna sanngjørnum sátta-bodum, og ecki horfandi í jafnvel ad gefa nock-ud eptir af ímindudum rétti, fyrir efa-, kostnad-

ar- og mæðu-sem málalok eptir dómi: láta svo sjálfa Partana stínga uppá og jafna sín á milli sáttarboðin, hvetja þá og leiða þar til, og til að slá af og bæta við eptir því, sem sanngjarnast vyrðist, en sjálfir ættu Forlíkunar menn í seinni lög að stínga uppá Sætta skilmálum, svo ecki verði þeir eptirá skuldaðir fyrir fávitsku, partísku eða tælandi fortölur og kúgandi myndugleika þar, sem allur sátta-samníngur á að fullgjörast báðum ljúft og óneydt. En — finni þeir annannhvern eða báða málspartana mjög ósanngjarna og ágenga í sáttakostum, ber þeim með hyggindum og góðsemd, að leiða þeim þvílíkt fyrir sjónir, og þá til meiri sannsýnis þar með, og — þegar beggja yfirsjón vyrdist ápeck, minnast ásamt fátækra, hvert þessum þá ecki verði góðmótlega útvegað liðsinni hjá p, sem þeir þráttandi, er þanninn leiðast til að þeckja bresti sína, fallist ljúflega á að unna þeim, og þar með enda alla misklíð. En, ómerkar lagafortölur og útleggíngar, spádóma um málslok við Dóm, og allrahelzt ógnanir með hans þúnga (óvissa) áfelli, ættu vorar ólögkjænu Sættanefndir aldrei að varast. Þær fyrstu henta engum, nema vel lögspökum manni, og varla þó, en ætíð með sérlegustu varúð, þar, "hverjum opt sýnist sitt, og enginn hattur passar

á allra; ecki heldur þeirra á Dómara, og allrasíst á Yfirdómaranna høfud"; en þær síðari er øllum óhæfa i frammi ad hafa.

Vorir Forlíkunar-menn ættu þess vegna aldrej ad láta sér úr minni lída, ad eins og Sættanefndanna lagagjøf er einhver sú heillavænlegasta fyrir land vort og lýd, vel og med hyggindum framqvæmd, svo má hennar óvitnrleg, ad eg nú ecki nefni, óhreinskilin brúkan, réttar nefnd: ógudleg misbrúkan, verda hennar sedaeglega tilgángi øldúngis gagnstæd, og landi og lýd háskalegri allopt enn ránglátur dómur, þar ránglát sætt vid þær, er sem ránglátur, en — sem verst er — undir eins óraskanlegur Dómur.

Snjøll og eptirtektaverd er ræda Conferenceráds og Riddara, Andresar Bjørns Rothe's 1801, um skyldur Forlíkunar-manna, hverra hann sjálfur lengi var einhverr hinn nafnfrægasti Forspracki: "Fagurt — segir hann — tignarlegt og allrar vidleitnis manna verdugt, er takmarkid, sem vér keppumst ad ná, ad fá stiptad frid og einingu medal medbrædra. En, veri þad, til varanlegs minnis, æfinlega innprentad vorum sálum, ad ef vér réttilega gagna egum med því verki voru, þá er vor fyrsta og mikilvægasta skylda, ad

útvega sjálfum oss sanna og rétta þeckíngu á landsins løgum, svo að vèr ecki villum þá, er þrátta saman, ecki afvegaleiðum þann sáttfróða, sem vèr vegleiða áttum. Lítilsverdt og lítið sómasamlegt skulum vèr álíta, að géta sýnt fjølda mikinn af endudum Sáttagjørðum, ef þessar ecki allarsaman svo varnar, að þær, fyrir Rèttlætisins og sannsýnis dómstóli fái staðist. — Enn framar: — Það er ecki með lockandi yfirtølum, ecki með því að beita því, er hinn slægvitri hefir framyfir þann fákjæna, sættum skal ákoma. Látum oss forðast þau meðøl! þau vekja vissulega gremju málspartanna, vekja vantraust á þessari ráðstøfun og þyngja oss erviðið. Einúngis þá rækjum vèr þetta voit kall, sem ber, þegar vèr, eptir það vèr með athygli og þolinmóðri eptirtekt høfum hlýdt á partanna kjærumál, egum bæði vit og vilja til að komast að sannleikanum; að sýna þeim sáttfróða þau løg, sem hlýða uppá hann, og loksins géfum sættinni það form, sem verndar partana við misbrúkun og nýum þrætum"*).

*) Siá Formála til hans: Samling af de, til Forligelses Væsenet, henhørende Forordninger, etc. Khavn, 1801. Pag. XIV—XVI.

Af þessari bók hefi eg að sönnu mikinn stuðning haft, við skrásetníngu þessa Handqvers, að því leiti hún vísar til ýmislegra Konúngs- og Cancellíbréfa, þessu efni viðvíkjandi, útkominna í 5 ár eða frá 1795 — 1800, enn þótt í öllu öðru formi, nefnilega Registurs, eptir bókstafa röð, og án þess hún innihaldi útleggíngu Sætta tilskipananna, enn síður undir sérhvern þeirra artikula setji seinni Fyriskipanir, sem gjöra einhvörja umbreytíngu eða viðauka þeirra innihalds, og þar hjá bæði marg ítrekar hún sama efni á mörgum fleiri stöðum, líka og innibindur margt eitt voru landi öldúngis óviðkomandi, hvar á í 19 ár síðan mikil umbreytíng og viðauki er ákomin, með nýum ráðstöfunum, sem hvörr einn best finnur við samburð hennar og þessa Qvers, sem henni er næsta ólíkt.

Að greiða vorum Sætta-nefndum og sérhvörjum Yfir- og Undir-manni, sem við Sætta-mál þarf að fást, réttann veg í meðferð þeirra málefna, með því, að fá þeim hér með í hendur útleggíngu þeirra greina Sætta tilskipananna, sem hér á landi vyrðtust mega henta ásigkomulagi þessa, með stuttu innihaldi og tilvísun við sérhvörja grein, til allra ýngri útkominna fyrir-

skipana, allt fram á 1819, að því leiti eg hefi vitneskju um náð, sem gjøra einhverja frekari umbreytíngu, viðauka og útskíríngu sérhverrar greinar, og með því að skipta Sætta mál-efnunum í aðgreinda flocka, álíkt sem Herra Rothe, hér með bókstøfunum A. B og C. auð-kénnda, til að sýna Nefndunum, hvør helzt málefni þeim bæri við að fjatla, og hvør oldúngis ecki, og þar hjá allviða að leggja þeim heilræði og varúðar-reglur, í sjálfri meðferð málanna, var því mín kostgjæfin viðleitni á þess-um bløðum, þeim til nauðsynlegrar vegleiðslu, og undir eins sérhverjum málsparti, hvørsu honum bæri og nær Sætta Nefndanna að-gjørða að leita, áður enn mála þrætur leggur til Dómstólanna. Eins fann eg hentugt að auka þetta Qver með lángtum fleiri athuga-semdum af løgum, enn eginlega þurftu til sjálf-ra Sættanefndanna aðgjørða, svo að það und-ireins verða mætti hentugt Handqver Em-bættismanna og annara um fleirst, sem lýt-ur að dómum eða aðgjørðum Yfirvalda, Dómara, Geistlegra og annara, að því leiti Sætta málefnum viðkoma má; í hverju skyni eg víða ráðfærði mig við fjølda af Yfir- og Hæstaréttar déma úrskurðum í ýmsum til-fellum, ásamt við nafnfrægustu løgspekínga rit,

þar á medal Hra Etatsráts og Riddara Doctor Juris Ørsteds, þó ætíd med stedugu tilliti til, hvad hér á landi henta mætti. Þó í þessum efnum reglur um Sætta-mála medferd og réttar álit í þeirra tilliti, byggdar séu allopt á hér í landi ókunngjørdum, og þess vegna ecki eptir straungum rétti skuldbindandi laga bodum, verda þær reglur fyrir þad engu midur áreidanlegar og adgætnis verdar. Þad mun og hverr sá finna, sem íhugar og man: ad Sætta mál og þeirra medferd ecki vidkoma neinu Réttarhaldi, úrskurdum eda Dómum, þar ed engin Sættanefnd er Réttur, eda hefir nockra løgsøgn, þarf því engin lagabod fyrir sig ad bera annur enn þau hér í landi auglýstu vid gjerdir sínar, þó hún æ gjøri skynsamlegast og best, til ad ráda ftam úr mørgum efasemdum, sem henni mæta mega allopt, fyrir þau løg ein, sem hér eru birt um Sættamál, eptir Løggjafarans og hlutadegandi Stjórnarráda, í ødrum tilfellum auglýsta vilja, úrlausnum og útskýríngum ad breyta. Þetta sama allt má og, í þessara mála tilliti, segja yfir høfud um allra Embættismanna og annara, þeim málum vidvíkjandi atgjørdir, sem sjaldnast ábræra Dómara verk. Enda þeckja upplýstir Dómarar skyldu þeirra, ad grundvalla ecki Dómsverk á ødrum enn hér aug-

lÿstum og land vort skuldbindandi Legum, nema ad því leiti Kóngsbréf frá 2rum Maji 1732 og 19da Febr. 1734 leyfa, í vandrædum, til annara ad eins nockurt tillit ad hafa.

Ad svo mæltu vil eg nú stuttlega minnast uppruna þessara lögtekinn Sætta-stiptana vor á medal, og þar ad lútandi laga, sem hér mega gyldandi teljast um Forlíkunar málefni þanniñ:

Þann 10da Júlii 1795, kom út konúngleg Tilskipan um Sattanefnda Stiptanir yfir allt Danmerkur Konúngs-ríki og í Norvegs Kaupstödum. Þann 19da Sept sama ár, baud hid konúnglega danska Cancelli Islands Yfirveldum ad yfirvega og leida fyrir sjónir, hvert og hvernig þessi Tilskipan yrdi framqvæmd á Islandi, med þeirri umbreytíngu, sem hér, eptir ásigkomulagi landsins, mætti best henta. Sídan útgéck Tilskipan, þann 20ta Janúarii 1797, um Sættanefndir á gjörvellu landinu í Norvegs ríki, og þann 25ta August 1798, Cancelli-skipan til Islands Amtmanna "samqvæmt tilskipuninni um Sættanefndir, heñar anda, tilgángi og fyrirsögn, hér ad koma Sættagjörda tilraunum á gáng, á svo fullkominn hátt, sem ástand landsins leyfdi"

Þetta Cancellí-bod tilnefnir, ecki hverja helzt þessara Tilskipána hér innleida egi, hvert heldur þá fyrri frá 10da Júlii 1795, eda þá sídari frá 20ta Janúarii 1797 útgengnu, en med þessu bodi vyrdist þad lagt Amtmønnum á vald af báðum þessum, ad nota hvad helzt vyrdast mætti best henta, og eins, eptir ástandi landsins, ad víkja í einstøkum greinum frá þeim bodordum beggja, sem hér vyrdast ecki, eda midur hentug.

Med tilliti til þess, ad Tilskipanin frá 10da Júlii 1795, einúngis gyldti fyrir Kaupstadi þess ríkis, undir hvers veldi Island þá eginlega lá, Norvegs nefnilega, má hún hér, ad því leiti hún heimfæraft kann, álítast einúngis hentug ad hafast fyrir augum í Kaupstødum Islands, og ad ødru leiti í þeim málefnum, sem hún, en ecki Tilskipanin af 20ta Jan. 1797, tilnefnir, enn þótt þessi sídasta Tilskipan, gefin fyrir landid í Norvegi, vyrdist í fleirstøllum greinum best ad henta ástandi vors, í mergu tilliti, því ríki svipada lands, og sé þess vegna af Amtmønnum valin til adal-reglu fyrir vorar Sættanefndir. Þess vegna býd eg nú hér

med, ecki einúngis þessum gódu Nefndum G'eggsvari Vegvísir til reglulegri framqvæmdar þeirra mikilvæga verks, heldur undir eins bædi Dómstólum þeim, sem vid Sætta málefni ega ad fást, eda um þau ad dæma, og ødrum landsmønnum mínum, sem um Sættir þurfa til þeirra og annara ad leita, eda eitthvad vid þær eg borgaraleg mál í þeirra tilliti ad athuga, med eptirfylgjandi Tilraun minni, ad fá þeim nægilegt Agrip í hendur allra þeirra greina í Tilskip. frá 20ta Jan. 1797, sem hér á landi þarf, eda vyrdist vel henta, fyrir augum ad hafa, sleppa hinum úr, en í skírlngargreinnum nedanundir bæta vid því helzta, sem annad hvert sú eldri Tilskip frá 10da Júlii 1795, ellegar fjøldi sídan útkominna konúnglegra- og Cancelli- Fyriskipana, og annara Laga, gjøra vid hennar sérhverja grein hér á landi athugaverdt, bædi med tilliti þess, sem hér vyrdist løgmætt eda henta mega, og ad nockru leiti vera kann af Amtanna Yfirvøldum fyrilagt.



Kon-

# Konúngleg Tilskipan
frá 20ta Janúarii 1797.

## I. Kapítuli.
### Um Sætta-nefnda Stiptanir.
§. 1.

Til þess að koma í veg fyrir óþarfar og kostnaðarsamar málssóknir þrætur manna á milli, skulu Sætta-nefndir allstaðar tilskipast, sem eiga að gjöra tilraun með að ákoma sættum með Málspörtum, áður enn þessum sé leyst með Réttargángi að lögsækja hverr annann. Því má ecke-ert mál — nema í þeim tilfellum, sem þessi Tilskipan útþrycktilega tilnefnir — takast undir réttar álygtun eða aðgjörðir við Dómstólana, nema Sækjandi þess sanni með vitnisburði hlutaðeigandi Sætta-nefndar, að forgefins hafi reynt verið í því máli að ákoma sættum.

Þar Cancellíbref frá 21ta Okt. 1797, hefir bannað stefnu að uttaka eða útgefa, áður enn sætta-tilraun í málum er til lykta leidd, og þeim vísað til Rettargángs, og Canc. (Circular) umburdarbr. frá 30ta Okt. 1802, álítur marklaust og óleyfilegt, þó báðir Málspartar semji um, að sleppa allri sætta tilraun, sem gagnstædt tilgángi Sætta-stiptana, einninn Canc. umburdarbref frá 13da Martz 1819 (sjá Alþ. s. á., bls. 163—64), að

setja skilmála þann vid Auktiónir, ad skuldunautar taki gylda auglýsingu kallsedla til Sættanefnda, einúngis á Auktióna stodum, sem jafn ómerka samníngi um ad sleppa sætta tilraun, hvad og augljóslega megi Sættum hamla, verdur máske spurníng, hvert Dómurum beri eptir þessum atridum embættis vegna ad frávísa máli, í hvørju stefna þanninn løgud er skrifud eda úttekin, máske og birt eda í rett løgd, ádur enn sætta tilraun er lokid? eda hvert og hversu bæta megi úr þeirri yfirsjón? Ad frávísa máli, í hverju Sætt ecki er reynd, er eptir Sætta-tilskipunum og fyrrtøldum Canc. bresum, Dómaranna sjálfra vafalaus embættis skylda, og þad vyrdist því eins skylda fyrir Dómaran ad meta þá stefnu ógylda, þegar átalin verdur, sem úttekin er, eins se hun munnleg, birt í ólögfilegri tíd, eda á ólögmætum stad, ádur enn Sætta tilraunum var lokid, øll von úti um sætt, en løgskipud og skrifleg skilríki þar um sönd frá þeirri somu Nefnd, sem Sátta tilraun átti vid ad fást, þó ad bádum málspørtum hafi saman komid um ad mæta fyrir annari Sættanefnd. Þess vegna er hardtnær jafnólögfilegt, svo sem násvipad fyrir Málsparta, ad koma ser saman um ad hlaupa frá Sætta tilraun fyrir hennar lok, eins og øldúngis ad sleppa Sætta tilraunum. Sama ber og um stefnur til vitnaleidslu, ádur sætt er reynd, sem Tilskip. frá 20ta Jan. 1797 um vitnaleidslur etc. fyrirbýdur, „nema vitni sen á ferdareisu eda liggi á sóttarsæng," hvørs vegna adrar á undan sætt ber ómerkar dæma; en — vitnaleidslur, sem sá ákiærdi eda stefndi medþarf ser til varnar, vyrdist hann, án tilkøllunar til sættaprófs, einusinni ádur i sama máli forgefins reynds, útvega mega, og jafnvel þar á byggja gagnsók gegn Mótparti hans, því þá verdur Verjandi ad Sækjanda, med jafnri skyldu um Sætta leitun, þó hann um þessa verdi ádur ad

kalla

kalla hann til sætta, nema ákjærucfni gagnsakar se einnidt grunndvallad á adalákjærunni, í hverrar tilliti Sætta tilraunn er þegar gætt. Þó verdur ecki saqt, ad Málspartar oldúngis hafi afrækt og vanvyrdt Sætta samnínga, þó annarhverr fyrir þeirra lok, ef fleiri Sættafundi þarf í sama máli, bíüi stefnufarir, þegar vonarlans þykisi ordinn um Sætt, en æfinlega má þó þvílíka stefnu, vid mótmæli, sem ógylda álíta. Finni mótpartnrinn samt ecki þad ad henni, og Sættanefndarinnar skriflegt vitni — því beggja málsparta egid, er ómerkt— ádur enn málid er undir Dóm tekid, fyri Rettinn framkomi, ad í því hafi hún forgefins reynt ad á-koma sætt, mun Dómaranum ecki bera sjálfkrafa fyri þad ad frávísa malinu, þar nidurlag N.L. 1—4—1 leyfir jafnvel málsókn án stefnu eda lögleqs fyrikalls, þegar vidstaddir hlutadegendur ecki mótmæla málssókn þess vegna.

§. 2. Amtmadur standi sjálfur — þad er: einn — fyrir Sætta tilraunum næst búftad hans í Amtinu, en í fjærliggjandi Umdæmum þess, nefni hann til greinda og rádvanda Forlíkunarmenn í sinn stad.

§. 3. Eptir stærd og ásigkomulagi skal Amtmadur skipta hverju Amti í adgreind Sætta-Umdæmi, þanninn: ad enginn þeirra innbúi egi yfir lengri veg þángad ad sækja, hvar Sættanefnd heldst, enn yfir 2 eda 3, eda lengst 4 mílur.

Canc. br. frá 21ta Nov. 1795 álítur haganlegast, ad Sætta samkomur haldist í Forlíkunarmanna húsum, eda ad Amtmadur tiltaki samkomustadinn.

§. 4. (Baud: ad hverr Amtmadur skyldi af Prédikunar-stólum láta lýsa takmörkum Sætta-Umdæmanna, sem nú er fyri laungu hjálidid.)

§. 5. Pared Sætta-Nefnda Stiptanir eru til sameginlegra nota, má enginn, sem í sama Umdæmi býr, skora sig undan, ad takgst þetta heidurlega kall á hendur, þegar hann vyrdist þar til hæfur; þó er hann ecki skyldur ad vera vid þad 3ur árum lengur. Einúngis Talsmenn mála (Procuratores) vid Réttina, skulu þessháttar störfum undanskildir.

Tilskipan þ. 10da Júlii 1795 leggur til í §. 13: „þared þeir þráttandi Málspartar kunna fyrifram ad hafa leitad rádа til þeirra. (Samanber §. 25 hjer eptir.

§. 6. Í sérhverri Sættanefnd skulu tveir menn, nefnilega: einn verdslegur Embættismadur, Prestur eda annar duglegur madur, sem ecki er af Bænda-stétt, og heidursverdur Bóndi. Sá fyrrnefndi haldi Forlíkunar-bókina, sem Amtmadur hafi löggyldt og hér til fyriskipad, en bádir undirskrifi þeir í henni, hvad gjörist.

Á verdslegum Embættismönnum til Sættanefnda, er hjer á landi lítil völ, því þó Cancbr. frá 25ta Aug. 1798, leyfi Sóslumenn til þeirra ad nefna, eins og þad bref hljódar: „þar, hvar alls enginn annar hæfilegur finnst, og voni þad þó, ad ýmsir Prestar hjer muni gefast, sem hafi þad til ad bera, er Forlíkunarmenn vidþurfi," vottar þó þess bref, þ. 3ja Júnii 1797,

sem fyribýdur til Forlíkunarmanna ad nefna nock, urn Underdómara, nema enganu annann duglegann mann, sem ecki se í bændastett, se þar ad fá, hvar Sættanefnd skal vera, ad Ríkisstjórnin ber jafnlítid traust til kostgæfni Undirdómara og — eptir §. 5 og 25 — til Talsmanna vid sættun misklída án Rettargángs (sjá skíríngargr. til §. 25). Fyrrnefnt Canc. br. frá 25ta Aug. 1798 býdur og, ad sá skirasti og vyrdtasti madur í bændastett, se ætíd valinn til Forlíkunarmanns í hverri Nefnd. Þó þetta Canc. br. frá 3ja Júníi 1797 láti í ljósi: ad vantraust leida mundi af kosníngu Undirdómara til Forlíkunarmanna, til kostgæfni þeirra ad sætta mál vegna hagsmuna, sem þessir (svipad Talsmonnum) hafa kynnu af málasóknum vid aukatekjur, mundi þessi hagsmuna von hjer á landi enn þá jafnan sárrír, í samjøfnudi vid margbrotna mædu, ervidi, ábyrgd og hættu, er leida má af medferd og dómum mála fyrir Undirdómara, opt til miklu meiri útláta, og því sjaldan verda uggvæn, eda freista mega Dómara vid Sætta tilraunir fyrir þad, til ad gleyma ejdi, skyldu og æru þeirra; þarámót vyrdist miklu óþjenanlegra, ad þeir færi sættum á flot vid Málsparta enn adrir, bædi þess vegna, ad serhlífnir Undirdómarar eda veikir í lagaspeki, kynnu øllu framar ad tortryggjast um rettlæti í sættasamníngum, og ad hafa látid ser annast um ad á koma einhverri, jafnvel ósanngjarnri sætt, líka þar til ad hafa misbrúkad þeirra Dómara myndugleika, med illri spá fyrir annannhvern Málspart um máls afdrif hans, eda máske hótun þar um, ef sættum hafnadi, og þar vid fá því hættulegri freistíngar til málafylgis med vildarmonnum, sem Sættin á eptir er óraskanlegur Dómur, og undir eins hafa fundid med sættum hentugt medal til sjálfir ad sleppa hjá Dómaraverka mædu og háska

 og

og ábyrgð framvegis. En — umfram allt mundi opt mega óttast, að væri Undirdómurum leyft — yfir höfuð að segja — að stýra Sættanefndum og þar að forlíka mál manna, legðist þeirra egin Embættis virðíng og samvitska þar við í meganum háska, en tálmaðist rettur manna og allteins Sætt. Þessi fyrir það einkum, að þá mundu fáir Málspartar bera það traust til Sættanefndanna, sem Tilskipan um þær í §. 28 þó tilætlar, með því' að opinbera þar Dómaranum allann hinn sannasta málsveg, jafnvel ser til áfellisdóms á eptir, ef óbilgjarn mótpartur tekur ecki Sætt, eða krefur ósanngjørn útlát eða samnínga til friðar; engir sýna skjøl sín og gøgn af sømu orsøk, vissir um að Dómarinn, sem í Sættanefnd sier þau og heyrir, byggja muni dóm sinn á eptir á þeim. En — þó fyrrareindur 28 Art. banni neitt skriflegt hier um frá Sættanefnd að útgefa, mundi Dómarinn þó, þegar mál þaðan kjæmi fyrir rett hans, annaðhvert opt neydast til, mót samvitsku sinni, og áður heyrðum og sieðum røkum og játníngum fyri sættanefnd, en máske neitudum eða apturhøldnum fyri retti, að fella visvitandi ránglátann og háskalegann dóm, og þar við hjá almenníngi, hverjum hier um yrði kunnugt, fljótt tapa embættis virðíngu sinni og tiltrú; eins ef hann fellir fráleitann dóm tillögum hans í Sættanefnd, spádómum um málalok við dóm og fortølum um laganna boð, sekt og útlát Málsparta eptir þeim, þegar hann við sættatilraunir hefir ecki hálf- eða gjørþeckt allann málsveg eða ástæður, nie fær þar tóm til í náðum að ígrunda beggja rett til fulls, eptir óljósum løgum. En samvitsku viðqvæmum Dómara mundi tilfinníng skyldu, að leggja ecki annað til í Sættanefnd, enn hann eptirá vildi dæma, aptra að láta meiníngu sína þar í ljósi fyrirfram, eða leggja frekt að sættum eptir laga ástæðum; hvar af eins auðsjáanlega leiðir, að Rettarfar manna þar við stórum mundi

tálmast og Sætt, eins og tilgángur fyrrnefnds §. 28 i Sætta Tilskipuninni oldungis rapast.

Ad Dómurum i Skipta, Póliti og Gjestarjettar málum þó er bodid ad reyna Sættir, manna á milli, mun sem serlega umdantekníngu ad álita, vegna þess, ad litilvægi, eda edli þess-háttar málefna, gjörir Dómara Sætta tilraunir i þeim midur ísjárverdar, málskostnadur i þeim er optast enginn, og þau málefni þar hjá ega og þurfa sem bradast, til lykta ad leidast.

Eptir Canc. br. frá 27da April 1799, á sá, sem Forlíkunar-bókina heldur, einnig ad vardveita hana, þar ed honum ber fyrir hana ad standa til andsvara.

§ 7. (Þessi grein leyfir þeim þorpum eda Hondlunarplátzum i Norvegi, hvar fleiri enn 20 húsfedur búa, ad velja sér 2 Forlíkunarmenn af 4, sem Amtmadur stíngi uppá, til sáttagjörda i sérhverju plátzi.

Þar ed þvílík plátz finnast fá hier á landi, þá er einúngis athugaverdt i þessu tilliti, leyfid, sem Tilskip. frá 10da Júlii 1795, i §. 12ta og 13da gefur Kaupstada-búnm: ad velja ser i hvörjum Kaupstad — vel ad skilja, sem Kaupstada-rjett hefir, sem nú er ad eins einn til i hverjum Landsfjórdúngi, sídan útkomu Tilskip. frá 11ta Sept. 1816, §. 5, nefnilega: vid Reykjavík, Grundarfjörd, Eyafjörd og Eskifjörd — 2 Forlíkunarmenn af 4 eda 6, sem Yfirvald þess Kaupstadar uppástíngur, hverjir valdir sen af öllum Borgurum, eptir fleirstra atqvædum, og þjóni þeir ad Sáttargjördum i 3 ár, en fari þó ecki bádir frá i einu, heldur á víxl, likt því, sem NL. 3—20—3 bódur um Yfirformyndara. Se ecki sá svo mörgum liklegum völ i smá-kaupstödum, má tölu For-

líkunarmanna þar fæcka, allt að 1, fáisi ecki fleiri, og eru þeir Forlíkunarmenn á meðan fríteknir frá øllum øðrum persónulegum þýngslum, meðan nockurr annar Kaupstaðarins borgari finnst til þeirra fær og hentugur.

§. 8. Þegar þeir útvøldu menn í fyrsta sinni taka til Sáttargjørða, skulu þeir í Forlíkunarbókina innfæra og undirskrifa þeirra Embættis-eið, svo hljóðandi:

**Eg N. N., kjørinn Forlíkunarmaður í N. N. Umdæmi, lofa og sver, að eg af fremsta megni skal leitast við að frama góð-mótlega sætt milli málsparta, í øllum þeim málum, sem koma fyrir mig í þessari Nefnd, og að eg þar til skal styrkja með mér møguglegasta fylgi og allri ráðvendni, eptir því, sem mér er auðið, og eptir bestu sannfæringu minni og samvitsku. Svo sannarlega hjálpi mér Guð og hans heilaga orð!**

Cancellí br. frá 19da Dec. 1795 býður: að sérhverr Forlíkunar-maður, hvert sem hann er Embættismaður eða ecki, innskrifi í Forlíkunarbókina og undirskrifi þenna Embættis eið, beint eptir Tilsk. þ. 10da Júlii 1795, sem er þessum eiðstaf samhljóða.

§. 9. (Þessi grein áqvarðaði yfir höfuð að segja, fyrir allt landið í Norvegi, að Sættanefndir haldast skyldu í upphafi hvers mánaðar,

og birjun þeirrá lýsa 8ta dœgum ádur af Prédikunarstólum, en lagdi þar þó Amtmønnum til leyfis bædi í Nordurlandanna og Finnmerkur Ømtum, og vídar upp til fjalla og vid sjó, eptir sérhvers Umdœmis náttúrlega ásigkomulagi, ad tiltaka hentugri tíma til Sættargjørda; gjøra þó skírslu til Cancellísins um orsakir til þeirra umbreytinga)

Vegna vors harda landslags, vedráttufars, torfærra vega á ýmsum árstímum, liss bjargar útvega margra manna og málafædar hier, fundu vorir Amtmenn, eptir þeim myndugleika fyrrtjed Canc. br. frá 25ta Aug. 1798 ljenar þeim, hentugast hier ad fylgja, eckí einúngis seinni parti innihalds þessarar greinar, heldur jafnvel Tilskip. frá 10da Julii 1795, §. 31, sem býdur Sættanefndum bædi í Kaupmannahøfn og annarstadar, ad setjast til Sættagjørda, svo opt, sem Sætta málefni vidþurfi, en segir í §. 30, ad se engin klagan innkomin, se samkoma Sættanefndar óþarf; því eru hier engar vissar tídir til Sætta-tilrauna tilteknar, nje heldur er þeim þessvegna lýst af Predikunarstólnum, heldur ega málin, án uppihalds, jafnódt ad fyritakast, sem þau innkoma, eda verda med løglegum fyrikalls fresti, eptir §. §. 22—23, til Sætta løgd.

## II. Kapítuli.

### A) Málefni, sem leggjast ega til Sættanefnda.

1.) Borg-

## 1.) Borgaraleg mál, sem Yfirvöld ecki láta höfda.

§. 10. Öll borgaraleg mál yfir höfud, hvert sem þau áhræra ódul og eignir, rétt, skuldakröfur eda annad, skulu leggjast til Sætta-nefnda, þó undantakast:

a) Málssóknir eptir Víxlunar eda Vexil-bréfum.

Tilskipan frá 10da Júlii 1795, nefnir í §. 19 málssóknir eptir vexil-brefum eda vexil, skulda, brefum, og undantekur hverjartveggja frá for-líkunarmálum.

Vegna þess, ad færstir af mínum ólogfjænu-lesurum, vita ad gjøra rjettann greinarmunn á vexl-um og vexil-skuldabrefum, vil eg hjer vikja litid á hverttveggja. Vexill nefnist bref, med hverju. einhverr játar sig á tilgreindum stad, medtekid hafa fjemuni til vissrar upphædar í peningum eda þeirra vyrdi, sem hann undir vexil nafni, rjetti og skuld-bindingu, lofar á ödrum stad ad útborga sjálfur eda láta borga, annadhvert þeim, sem hann tók and-vyrdid af, eda hverjum þeim, sem þessi heimiladi rjett sinn til ad krefja þess borgun. Frestinn til vexla borgannar, eptir því hvert uppá Silfur eda Rikisbd. S. V eda R. V hljóda, og hvar þeir útgefast, ágvardadi seinast Plac. frá 22rum Marts 1813, frá því sýndir eru þeim, sem borga á; vexil skuldabref nefnist þar á mót bref, í hverju ein-hverr med egin hendi játar sig ad vera ödrum skuld-ugann um peninga, helst fyrir þegid peninga lán, og skuldbindur sig til ad lúka þá aptur (nú med 5 eda 6 af 100. í rentur, eptir Tilsk. frá 20ta Marts 1815, §. 7, í S. V. eda R. V. seu rentur á-skildar) til ágvedins tíma, í lengsta lagi ad 3ja

mánada fresti frá því Vexilskuldabref var útgefid. Þessi skuldabref innleiddi fyrst i Danmørku og Norvegi Tilskipan frá 26ta Novembr. 1731; hjer er sú Tilskip. enn ógyldandi, þó Tilskip. 20ta Martz 1815, í §. 7, ad eins nefni vexil skuldabref (obligatiónir), það er að skilja, hvar logteknar eru og løgbodnar, en vexla hafa NL 5—13—6 , 26, Tilskipanir frá 16da Apr. 1681, 31ta Martz 1688, 26ta Nov. 1731, en hjer hjá oss, Fyrirskipan frá 17da Nov. 1786, §. 17, og 13da Júnii 1787 løgleidt. Bædi þessi Bref, se þeim ecki fullnægt í tima, en verdi þeirra rjettur þó og málssókn í þeirra tilliti í tima, og sem løg fyrirskipa, adgjætt, hafa þinn sterkasta krapt og gefa lánardrottnum rjett til, þá strax ad varpa skuldaþrjótnum í fángelsi, ef þeir í rjettann tíma ecki borga, m. fl.; en þó, sem fyrr segir, Tilskipan frá 10da Júlii 1795, í § 19, undantæki bædi þessháttar bref frá Sættunar málum, hefir sunnur nórri og serleg, einninn frá 20ta Jan 1797, útgefin Tilskipan lagt vexilskuldabref, líka til Sættanefndar adgjørda, segjandi: „þar Vjer høfum þess varir ordid, ad i málum, sem áhræra vitaskuldir, kiemst heppilega gódmótleg Sætt á, einkum med því ad tiltaka þolanlega gjalddaga, sem málspartar semja um, bjódum Vjer, ad mála sóknir, eptir vexilskuldabrefum (Vexil Obligatiónum) skuli hjer eptir ecki vera undanteknar frá því ad leggjast til Sættanefnda, ádur eñ málssókn um þau høfdast."

„Þar á mót á um (víxlunar) vexilbref ad standa, hvad fyrirskipad er i Tilskip. frá 10da Júlii 1795, §. 19. Þad er annars sjálfsagt, ad vexil skuldabref halda krapti þeirra, se klagan um betalings skort eptir þeim, inngefin til Sættanefndar, ádur enn vexilskuldabrefid er úr gyldi fallid, eda úreldist.

„Sá Forlikunarmadur, sem kallsedla útgefur, skal því vera skyldur ad rita á vexilskulda-

brefið, að klagan um það, áður enn þess úrgyldis (forfalls) tími kom, se hösdud, ellegar gefa áklagaranum vitnisburd þar um"

Þar hjá er aðgjætandi: að þar eð vexil skuldabref eptir Tilskipan frá 26ta Nov. 1731, lánardrottnum til góðs, halda krapti i 1 mánuð, eptir það gjalddagi þeirra er kominn, er klagan um þau til Sættanefnda jafnlengi løggyld, að minnsta kosti, eda lengur, eptir þessari Tilskip. frá 1797, þó hværri rentur, eptir þesshåttar brefum vyrdist að eins bera allt að þeirra rjetta gjalddaga, en ecki lengur, eptir hinni frá 26ta Nov. 1731, hvar hún gyldir. Líka ber þess að gjæta, að kymist Sætt ecki á, ber um skuld eptir vexil skuldabrefum tafarlaust að stefna til fyrsta Rettarhalds, sem fáanlegt er, eptir það Sætta Nefndin hefir vísað því máli til dóms, samqvæmt því sem í § 11 (Tilsk. 26ta Jan 1797) boðið er, um Arrests- og Forbods- eda Logsestu-mál, cai þau bref ecki annars að tapa krapti við bið úr því, liði fyrrgreindur eins mánadar fresiur hjá, því Tilskip um vitnaleiðslur og vexla frá 20ta Jan. 1797, býður að sönnu: að þau bref, sem í tækann tíma eru logd til Sættasamnínga, haldist í krapti meðan á þeim stendur, en fyri það ecki framvegis, se drollað við málssókn eptir Sættalok, og hefir því ecki, í odru tilliti en Sættanna, breytt bodi Tilskip. frá 26ta Nov. 1731. Það er því áríðandi að klagan til Sættanefnda verdi um þesshåttar mál í tíma inngefin, áður enn þau missa krapt og rett og úreldast, en allteins er aðgætsluverdt að hún heldur ecki leggist fyrir Sættanefndar fund ofsnemma, þó hún fyrri dagsett eda jafnvel afhendt se, meðan gjalddagi eindagaður er ókominn, eda annar tiltekinn tími fyrir útlát, gjold, skuldir, verk eda annara samninga uppfyllingu, hvers edlis sem vera kunna, t. d. eindagi jardar afgjalda, eda skatta og tolla til útsvars, skulda eptir

handskriftum, verk eda vinnuvist, eda fyrir adra sáttmála, dóms fullunstingjørd, og s. frv., þvi — á medan er enginn rettur til þeirrar krøfu, engin skylda annara henni ad gegna, þess vegna enginn sekt vid ad mæta ecki á medan til sætta um hana, og engin afbatan fyrir áklagarann, ad hafa í ótíma lagt þvílíkt málefni til sætta, ádur eñ hann þar um høfdadi løgsókn, þar sú sáttar tilraun verdur sem ógjørd metin, nema svo se, ad Sátta tilraun og fundur birji ecki fyrir rettann gjalddaga, frá hverjum fyrst er ad vænta, ad rentur af skuld, eda ardur af sóktri eign med løgum, verdi vid dóm reiknadur. En þó þesshattar vrelldtra brefa skuldamál hafi løgd verid til Sættanefndar, er nỳ Sætta tilraun samt í þeirra tilliti naudsynleg, veitist þesshattar brefum nýr kraptur med konúnglegri Uppreisn, svo ad málinu, vegna skorts þeirrar Sætta tilraunar, verdi ecki sídan vísad frá Retti, þar skuldunautur ødur kann hafa sættum hafnad í þess trausti, ad vexilskuldabrefid var úrelldt; hafi þarámót málid, ádur enn þau bref úrelldtust, komid fyrir Sættanefnd, en sú orsøk verid til fenginnar uppreisnar, ad løgsókn hafi framyfir laga eindaga í því dregist, þarf ecki nýrrar sætta tilraunar vid, þó uppreisn þessa vegna veitist.

Þad tilfelli má andreldlega mæta Sættanefnd, ad enn þótt §. 10, undanskilji vexlabref Sættasamningum, leggi þó einhverr skuldaheimtari þvílíkt til Sætta, til ad komast hjá málssókn, eda votta sáttgirni sína. Hvad mundi henni þá hentugast hjer um úr ad ráda? Þad er ad sonnu líklegt ad þó hún neiti sætta tilraun í þesshattar máli, og eins sá áklagadi þarum til fundar ad mæta, dæmist þau bædi siknsaka, fyrst þesshattar mál eru undanskilin Sætta tilraunum; en þad er víst, ad þesshattar mála undantekning, er í løgum gjørd lánardrottnum í vil, og ad þeir þvi med vexla ega frjálst ad hafna sjálfviljuglega þeirri laganna góð-

vild vid þá; en þeir ega samt þar vid í hættu, þó þeir i tíma inngefi klögun til Nefndarinnar, eptir N.L. 5 — 13 — 21 ad missa þeirra vexilrjett, fái þeir á eptir ecki málid hofdad innan 6 mánada, vegna þess ad þeir ecki í þessu máli gengu framstjemmsta laga veg. Þó mundi Nefndinni best, álíkt því, sem Canc. br. frá 31ta Oct. 1795, í §. 9 leyfdi, nefnilega: ef málspartar girntust svo, ad taka þau mál fyrir vid Sættanefndir, sem þegar lögd vóru til Rjettar, en þó ódæmd, ádur enn Sættastiptanir tóku til verka sinna, og eins med brefi fra 5ta Aug. 1797, ef bádum málspörtum kjæmi þad ásamt, ad leggja mál dæmt vid Undirrjett, en appellerad til Yfirrjettar, fyrir Sættanefnd, þó hverttveggja værn ad lögum Sætta tilraunum fráskilid. Leggi því nockurr lánardrottinn vexla málefni til Sætta, ættu Nefndanna adgjördir vid þau ad vera eins lagadar og vid önnur mál, og eins vitnisburdir um fund eda utivisti málsparta, eda þeirra sætt, hverra gyldi Rjettunum eptir á einum ber ad meta.

Ureldt vexilbref, sem innann 6 mánada ecki er eptir N.L. 5 — 13 — 21 stefnt um og hafa mist vexilrjett, til hvers reiknast má sú undantekning frá Sætta tilraunum, sem Sætta tilsk. frá 1797, í § 10, gefur gyldum vexilbrefum, vyrdast ad sönnu, sem serhver önnur skuldabref, rjettilega leggjast mega til Sætta, ádur enn um þau se stefnt til Rettar, þó er þeirri regln enn þá vid særri Dómstóla fylgt, hvar menn fyribera, ad lagasetningin um Sættir í þessu tilliti ecki gjöri augljósan greinarmun á gyldum og úrelldtum Vexilbrefum, og Undirdómurum því vyrdist háskaminna, á medan nótt bodord ecki annad fyriskipar, ad dæma eins þesshættar Vexilbrefa mál án Sættaprófs, enn ad vísa þeim frá, sökum þess skorts, einkum þegar skuldunauturinn krefur þessa ecki, og óttast því

fram-

framar møgulega heimvísun þeirra fráví sudu verlamála frá Yfirrettum á hiuna kostnad.

Se skuldamál reglulega lagt einusinni til Sætta, en þó sorgefins, og því þess vegna vísad til málsfóknar, en verdi sama skuld sidan, annadhvert ádur enn um hana er til rjettar stefnt, eda medan á málinu stendur, afsølud til þridja manns, þyrdist þessum ecki bera á ný ad kalla sama Skuldunaut til Sætta um hana, nje þessum skyldt þar um aptur ad mæta, eda Nefndinni þad mál, fyrir einber lánardrottna umskiptiu, á ný fyrir ad taka til Sætta. En, undirgángist añar, í Skuldunautsins stad, hans skyldum í skuldar þeirrar tilliti ad gegna, (t. d.: ef skuldunautur á skuld hiá ødrum og skuldskeytir þenna fyrir skuld sinni vid lánardrottinn, med beggja samþycki), ber efalaust ad kalla þann nýa Skuldunaut til Sætta, se mál ecki þegar um skuldina hofdad. Þó nú ýmisleg fleiri verilrjettar mál, til dæmis þau: NR. 5—13—25 tilnefna, þyrdast mættu jøfn ad rjetti vid verlabrefin sjálf, til undantekningar frá Sættatilraun, hefir samt Canc. br. frá 25ta Oct 1803 úrskurdad, ad einúngis málssóknir eptir verlabrefum sen Sættum undanskildar, hvar til ecki megi reikna ønnur mál enn þau, sem grundvallast á skuldbindíngu, sem verilbrefid iñiheldur, hversvegna øll ønnur mun óhultast til Sætta ad leggja, ádur enn til Dómstólanna.

b.) Krøfur í dánar,- þrota- (fallit) og uppbods-búum (undanskiljast Sættanefnda adgjerdum), þar málskostnadur í þeim tilfellum er enginn vid þeirra fyrsta Dómstól. Þó skulu Skipta-fyrirádendur sjálfir, þá þræta afrís, reyna til ad sætta málspartana.

c.) Þeg-

c.) Þegar mál þurfa ad upplýsast med vitnum, sem annadhvert liggja á sóttarsæng eda á ferdareisu, svo ad vitnisburdur þeirra vid þad missast kynni, þá má leyft vera ad leida þau vitni, fyrr enn málid er fyritekid vid Sættanefnd, en annars ecki.

Önnur Tilskipan, þ. 20ta Jan. 1797, bætir vid: „En annars má eckert þíngsvitni, sem midar til skilríkja (gagna) í málaþrætum leyfast, fyrr enn adalmálid er komid fyrir Sættanefndina. En komi málspartum þarámót ecki saman fyri Sættanefndinni, um rettann málavext, svo ad vitni þess vegna leida þurfi, á Sættanefndin jafnlengi ad skjóta þeim málum á frest, sem vidþarf til vitnaleidslu." Nefnd Tilskipan bætir og vid: „og þar um gefa hlutadegendum vitnisburd" (svo ad þeir fái þvílík þíngsvitni leidd vid Dómstóla), og sídan ad taka þau fyrir á ný til forlíkunar. (sjá framar §. 32 med skír. gr.) Þess vegna segist í tjedri Tilskipun: ad vitnaleidsla fyrifram, eda á undan sætta tilraun, se nú bundin vid þessi 2 tilfelli: ad vitni liggi veik eda á ferd, svo óþarfa málskostnadur uppá vitnaleidslur fyrifram, sparist, og hann ecki sídarmeir þursi sættum ad spilla.

## 2.) Arrests- eda Kyrrsetníngar- og Forbods- (eda Logfestu) mál.

§. 11. Virji málsókn med Forbodi (logfestu) eda Arresti (kyrrsetníngu, haldi), á Sækjandi, eptir ad þetta er framfarid, ad kalla mótpart sinn fyrir Sættanefndina, en verdi þar ecki skomid sætt, sé Arrestinu eda Forbodinu framfylgt med stefnu til næsta þíngdags, sem eptir

lögmæta stefnubirtíngu verdur fenginn, eptir þad Nefndin hefir vísad málinu til Dómstólsins.

Ef Forbod (Lögfesta) eda Arrest (Kyrrsetníng) grundvallad á vexilbrefi, vyrdist þetta, bædi eptir §. 10 og fyrrnefndu Canc. br frá 25ta Oct. 1803, ecki þurfa nje eiga til Sætta ad leggjast, og þessi §. 11 einúngis ad vidkoma málefnum, sem eptir ödru edli þeirra ega til sætta ad koma; því annars vildi lánardróttna vexla-rjettur í þessu tilfelli verda enginn; vexla-rjettarins lögskipadi hradi tapast, og formid í þesshattar málsóknum, sem birja med forbodi eda arresti (kyrrsetníngu), hafa fráleitann og minni rjett, enn vexlan sjálf, þó formid vyrdist, sem afleiding þessarar, ega ad vera undir sömu lögsóknar lögum, og í þessu tilfelli undanskilid Sættum, svo þesshattar forbodi eda arresti strax megi án þeirra tilraunar, til dóms framfylgja.

## 3.) Skodunar-mál á þrætustödum, og Álags-mál jarda og húsa á stundum.

§ 12 Í málum, sem ecki verda útkljád, án undangángandi skodunar á (þrætu) stadnum, ega hlutadegendur, ádur enn þeir leita Sætta-nefndarinnar, ad láta naudsynlega Skodunar-gjörd framfara, eptir NL. 1. B. 16. Kap., til upplýsingar málsins, nema Forlíkunarmennirnir verdi fengnir til ad ransaka málid á þrætustadnum.

Hjer til heyra mál um tregdad álag Jarda og Húsa, nema Skiptarettar Urskurdur se þar um fallinn. Cancellíbref þann. 9da Apr. 1796, §. 2. sjá C. 6.

4.) Ojafnadar- (Injuriæ) mál.

§. 13. Mál um ójøfnud í ordum edur verkum, sem sá málspartur sjálfur ákjærir — eda lætur ákjæra — sem afgjørt var vid, á og ad leggia fyri Sættanefnd, ádur enn um hann er løgsókn hafin, og NL. 1 — 22 — 8, skal ecki hamla kunna forlíkun í þesshattar málum, þó þar af leida mætti slagsmáls (áfloga), ofelkis eda 3 marks (þ. e. ærulepsis) bætur.

Vidvíkjandi ójøfnudi, sem málsparti mætir frammi fyrir Sættanefndinni, (sjá §. 28 med sk. gr.), og um undantekníngu ærukreinkjandi áburdar uppá Embættismenn, frá forlíkun, í §. 15 med sk. gr.; einninn í §. 14, þeirra óróa- og ójafnadar-mála, sem Yfirvøld Rjettlætisins vegna átelja, sjá C.

5.) Hjónabands-mál med vissu skilyrdi, og þar ad lútandi fleiri mál.

§. 16. Í Hjónabands-málum skal Sættanefndin, þegar bádir Málspartar eru vidstaddir, reyna til ad ákoma einíngu þeirra á milli, og til ad framhalda sambúd þeirra. En verdi forlíkun ecki þannig ákomid, má Nefndin hverki leyfa þeim hjónabands skilnad, né adskilnad frá bordi og sæng, sem einúngis vidkomandi Dómstólum og Yfirvøldum skal bera ad álykta; þó má þad leyst vera í því sídara tilfelli ad medtaka beggja hjóna samníng um skilmála þá, med hverjum þeim kémur saman um ad lifa

adskil-

adskilin, svo hann verda kunni (þeim) regla, ef skilnadur sídan leyfist þeim.

Þó Tilskipan frá 18da Oct. 1811, streki Sættanefnda skyldu, ad reyna ad ákoma sætt í þessum málum, vidkiemur þeim þó ecki, heldur Yfirvöldum, ad krefja Sóknarprestanna vitnisburdar, um þeirra ádurgiørdu Sætta tilraun í þeim; en, eptir Canc.br. þ.10da Aug. 1805, ber Nefndunum ad áminna þau hjón, sem fyri þeim semja um ad lifa adskilin, ad þau strax leiti Yfirvaldsins leyfis þar til.

Þessi ord í § 16: þegar bádir málspartar eru vidstaddir, gefa til kynna, ad bædi hjónin egi siálf vidstødd ad vera í egin persónu, ef Sætt skal reyna, í hjónabands málum; ad hverugt því megi senda mann í sinn stad til sættafunda, þó fjarlæg seu, eptir §. 22 og 25, og ad allri sætta tilraun añars verdi sleppt í þeim málum vid Sættanefndir. Hjónum, sem annt er um skilnad, er samt áridandi fúslega ad mæta fyrir Sættanefnd, þar ed konunglegt Leyfi er þann 22ann Oct. 1813, veitt Cancelliinu í Umbodi Konungs ad leyfa fullkomin hjónaskilnad, þegar serlegar ástædur ráda til þess, og 3 ár eru lidinn frá því hjón þau sømdu vid Sættanefnd ad lifa adskilin, þó Yfirvalds leyfi til þess se seinna veitt; ad ødru leiti ítrekar §. 5, í Tilskip. frá 18da Oct. 1811, eldri laga bodord, einkum eptir Konúngs skipan frá 22rum Jan. 1796, (auglýstri í Løgþ b. s. á. No. 18, bls. 13) ad Yfirvøld, eins og Prestum nú og med nefndri Tilskip. er bodid ad reyna, skuli kalla bædi hjónin fyrir sig, reyna ad ákoma sætt med þeim og áminna þau til samveru, ádur enn þau skilnad ødlast megi, annadhvørt ad bordi og sæng, eda algjørlega, eda um þetta sækja til Konúngs, auk þess, sem Sættanefndum ber sama ad reyna. Sama

bódord hefir hid konúnglega danska Cancellí þann 11ta Febr. 1815, enn þá endurnýad. Hverskallist eitthvört hjóna, er skilnadar beidist, ad mæta hjá Presti sínum, eptir Tilskipun frá 18da Okt. 1811, ber ad tilkynna þad Amtmanni þess, sem sektar mótþróagjarna í ad hlýdnast hennar bodi fyri þad um 2 til 10rbdla S. V, eptir Plakati frá 10da Febr. 1818.

Í skilnadar-málum trúlofadra til hjóna-bands, band Tilskipan um Trúlofanir þann 19da Febr. 1783, §. 5, Sóknarprestinum ad reyna sættun, hversvegna Plakat þ. 1ta Febr. 1798 í §. 3, und-anskildi þau mál frá Sættanefnda adgjördum, og vísadi þeim til Sætta tilrounа, eptir fyrrtjedri Tilskipun, en þar nýrri Tilskipan, þ. 4da Jan 1799, aldúngis aftók Trúlofanir, verdur framar engin spurníng hjer um, því heimugleg eda vottføst, munn-leg eda skrifleg loford um hjónabønd sídarmeir, teljast ecki til hjónabanda mála, en ákjærur um brygdmælgi í þeirra loforda tilliti, og á stundum rádspjalla bætur, eptir Tilskipan frá 5ta Martz 1734 §. 1—6, heyra nú undir reglulegar Sætta-nefndir med ødrum borgaralegum málum, eptir No. 1, §. 10. hjer ad framan.

6.) **Odals-mál.** (sjá §. 10. bls. 24.)

7.) **Vexil-skulda-brèfa mál.** (sjá skíríngargr. til §. 10, bls. 24—29.)

8.) **Konúngs Skattgjalda mál hálfu ári eldri.**

Þau mál, sem þeir, er fyrir konúnglegum reikníngum standa, hafa svo lengi —þad er: yfir hálft ár eptir RS. 5—13—35 — lidid vidkomend-ur um, ad þau eru ad álíta, sem privat, eda egin

krafa þeirra, komi fyrri til Sættanefnda enn løgsóknar. Canc. br. 21ta Jan. 1797.

9). Skulda-mál til Hospítala og opinberra Stiptana.

Eptir Cancellí br. þ. 9da Apr. 1796, ega mál um skuldir til Hospitala ad leggjast fyrr til Sættanefnda enn løgsóknar, þvi má og hid sama gylda um skuldakrøfur til opinberra Stiptana, nema máske, ef Yfirvøld láta þar um mál høfda; en høfdi þau adrir enn Yfirvøld, ber efalaust ad leggja þau mál til Sætta. (Sjá skír. gr. til §. 14.)

10.) Kjærumál Mædra óekta barna, um framsæris tillog af fedrum barnanna, eptir Tilskipunum þ. 14da Okt. 1763, 10da Dec. 1790 og 30ta Martz 1794.

Þesshàttar mál ega til Sættanefnda fyrst ad koma, en Yfirvaldid á ad setja Mædrum þeirra Svaramenn til ad standa uppá gagn þeirra, þegar Sætt gjørist þeirra á milli og barnafedranna. Cancellibr. 26ta Apr 1800. En eptir Cancbr. 26ta Júlii 1800, á ecki til Sætta ad leggjast tregdad utsvar, sem Yfirvaldid einusinni ágvardad hefir til framsæris óekta børnum, heldur útleggjast þareptir, eins og eptir Dómi. Sama vyrdist og sanngjarnt í barnsfadernis lýsingar málum. —Handbók min fyrir hvern mann, lýsir þessum málefnum ítarlega, bls. 112—115.

Til þess ad koma ólíkum bodordum Cancellíbrefa þann 26ta April og 26ta Júlii 1800 saman um: kær kjæru-mál um tregdad tillag med óekta børnum af fedrum þeirra, egi ad leggjast

 til

til Sættanefnda eda ecki, verda þau svo ad skil'jast og útleggjast: ad þegar mædur þeirra barna eda þeirra Svaramenn kalla Fedurnar fyrir Sætta nefnd um þetta tillag, en Yfirvaldid eckert þar um áqvardad hefir, ber Nefndunum ecki ad frávísa þesshattar kjærumálum, heldur reyna þar um ad ákoma Sætt; jafnvel Yfirvaldinu ber ad láta þessa Sætta samnínga reyna, ádur enn þad, eptir Tilsk. þ. 14da Okt. 1763, úrskurdar þetta tillag, og þar hjá setja mædrunum Svaramenn, sem vid samníng'inn adgæti hinna gagn, álíkt Tilsjónarmönnum þeirra, sem ecki eru fullmyndugir. En — se Yfirvalds úrskurdur hjer um eitt sinn gefinn, er hann ad álíta, sem fallinn Dóm, þó útsvari eptir honum se tregdad, og þá ber þad mál ecki framar enn önnur dæmd mál (sjá No. 4 vid §. 15.) til Sætta ad leggja. Ecki heldur þó útlag tregdist eptir sætt, því í öllum þeim tilfellum ber þeirri sætt eda þesshattar úrskurdum fullnustu strax ad veita, eptir Tilskip. þ 10da Dec. 1790. (Sjá Handbók mína, bls. 113—114) Tilskip. þ. 14da Okt. 1763 býdur ad útleggja þetta af eigum eda kaupi Födursins, og Canc. br þ. 2an Maji 1789, ad þetta skje skuli med adför, en Canc. Umburdar (Circular) br. 19da Okt. 1816, ad náqvæmlega se adgætt, ecki einúngis ad úttaka af eigum þeirra fedra uppeldis tillagid hjá sjálfum þeim, heldur, þar margir þesshattar fedur sen vistlost hjú hjá ödrum, beri af kaupi þeirra hjá húsbændunum ad kyrrsetja eda útleggja þad, sem á brestur til framfæris tillagsins. En — þegar med þessum þanninn fyriskipudu medölum, módurinni verdi ecki útvegad þad Forlag hjá Fedrunum, sem henni ber, megi fyrst fara því fram, sem Tilskipan þann 10da Decembr. 1790 **býdur um þad ávantandi.**

## 11.) Barns-faðernis-lýsíngar mál á stundum.

Viðvíkjandi feðrun óekta barna, taka Canc. br. frá 26ta Júlii 1800 og 16da Apr. 1816, þaû vafa af, að Yfirvaldinn ecki, heldur Dómaranum, beri að hlutast til, að sá lýsti annadhvört medgángi Faðernið eda hreinsi sig þar frá að lögum; þó ætíð eptir undangengna Sætta tilraun, til hverrar strax ber að vísa; en komist sætt ecki á, er samt eptir seinast nefndu Canc. br. óvíst, hvert ejður má leyfast þeim lýsta barnsföður, gjeti barnsmóðirin fremfært gyld rök fyrir lýsíngu sinni, t. d.: samfængun o. s. frv. og eins hvert ejðs þarf við, ef barnsfaðirinn sannar álík rök um sakleysi sitt, t. d.: fjarlægð sína svo lengi, að ecki fái svo miklu rjettilega skackað um tímann. Barnsmóðurinni ber samt eginlega, að kalla þann lýsta Föður fyrir Sættanefnd, sem ecki vill kannast við Faðernið, og komist Sætt þar ecki á, þar eptir stefna honum til Rjettarhalds þar um, og se hun ecki fær þar um, fá þar til Yfirvaldsins aðstoð med Svaramann; en — að ynædrum óekta barna eins við þá Sætta tilraun um faðernið, sem um medgjafar útsvar af barna feðrunum, setjist svaramenn, er af sonu og líkum laga rökfemdum saungjarnt.

Eptir Tilskip. frá 3ja Júnii 1746, um Hjónbands mál §. 11, er hjer að sönnu Sýslumanna Embættis skylda, þá Faðirinn neitar, undandráttarlaust að ransaka þess háttar mál, en — bæði eru Sætta stiptana boðorðin yngri, svo að nú ber til Sætta þeim málum fyrst að vísa, líka hefir Placat af 12ta Júnii 1812, nú aftekið sekt fyrir lausaleiks brot, að minnsta kosti í 1ta og 2ru sinni, svo eptir því vyrðist Sýslumanna Embættis skylda um þá ransókn legorðs mála, sem

sem fyrrgreind Tilskip. frá 3ja Júnii 1746, §. 11, þeim uppáleggur, i þeim tilfellum einum burtfalla ega sem óþörf, hvar Rettvisin eckert hefir ad straffa. Ymisleg lög (sjá Kóngsbref frá 25ta Júlii 1808, §. 11, og þar tilnejnd fleiri), sem krefja opinberar sektir og straff eptir dómi fyrir hórdóm, vyrdast nú og svo ad vera umbreytt med Kóngsbrefinu frá 3ja Maji 1816, §. 6, svo ad hverki þurfi lagaákjæru nje dóm um hórdómsbrot í 1ta og 2ru sinni, þegar sá seki, gódviljuglega lætur af hendi áqvardada lagasekt og bætur, eptir Kóngsbrefi frá
1808 25ta Júlii ~~1818,~~ §. 11 — 12, hvad og er samqvæmast, bædi rjettvísi og bodi NL 1 — 5 — 11, svo ad saklaus ektamaki ecki lidi óverdskuldad útdrag úr fjelagsbúi, med kostnadarsömum málasóknum. Samt verdur enn máskje vafasamt, hvert þessa Kóngsbrefs §. 10, hafi hjer herdt straff, framyfir Stóradóms, fyrir lausaleiksbrot í 3ja sinni, samqvæmt NL. 6 — 13 — 8, 9, og Tilskip frá 26ta Apr. 1755, eda hvert, vegna §. 10, þessa Kóngsbrefs, NL 6 — 13 — 10 og 12, Tilskip. frá 9da Júlii 1745, Tilskip. frá 6ta Dec. 1743, §. 22 og Kóngsbr. frá 1ta Febr. 1799, med þessu ýngra lagabodi álitast megi hjer innleidt, en Kóngsbr frá 15da Martz 1780, og Canc. bref frá 31ta Dec. 1799 úr gyldi; eins hvert Tilskip þ. 3ja Júnii 1746 §. 10 og 13, og Tukthuss Fúndatz þ. 3ja Martz 1784, §. 1. No 2. c. um straff fyrir lausaleiks brot í 4da og 5ta sinni, seu hjer úr gyldi, hvad eg þó ecki held, á medan fyrrtjed lagabodord eru hjer óbirt, og þeim ei útþryckilega skipad ad fylgja. En þared Sýslumanni einþá, eptir §. 12. Tilsk. 3ja Jún. 1746 og Canc br. 13da Okt. 1787, ber ad skilja legordssekra sambúd, finna Yfirvöld næga lagaástædu til ad fyriskipa Rettvisinnar ákjærur gegn þeim legordsseku, sem ólöglega samanbúa, og jafnvel mót þeim, sem í 3ja sinni lýstir verda brotlegir med

barneignnm, hvert heldur í lausaleik eda hórdómi, hverra brota sekt grundvallast verdur á játningu brotsins, og ef þeir sekudu neita því, ejdi þeirra fyrir Retti, eda á þessa rettlætingar dómi; hvers vegna, þó barnsmódirin þegi, og falli þá lôsin sedur hverki fyrir Sættanesnd nje Rett í þessum tilfellum, Rettvísinni ber mál ad hysda gegn þeim sekudu um Faðernid og brot þau, sem, ef fadernid játast eda sannast, reynast, sem nú var sagt, eñ ad lögum svo saknæm, ad meiri sektum taki enn leaskipudum bótum; en þá verdur þeirra mála undantekníng frá Sætta tilraun, eptir Sætta Tilsk. þ. 20ta Jan. 1797, §. 14, bls 43. sjálfsogd.

12.) Oll mál í borgaralegum edur veraldlegum efnum, sem áhræra geistlega menn.

Þessi mál komi oll fyrst til Sættanefnda, þar Tilsk. frá 20ta Jan. 1797, §. 10, hefir þar í umbreytt og framar ágvardad bodord Nk. 1 — 2 — 12, Canc. br. frá 27da Jan. og Plac. 1ta Febr. 1798. Med Tilskip. frá 27da Nov. 1816, fyrir Island ern Prófasta Skiptarettir og Yfirformyndaradæmi, jafnódt sem Prófasts Embætti hjedan af leysa, aftekin og eins nu strax Rjettarhöld í ödrum enn geistlegum málum; en í §. 4 segir: „Rjettargángs mál, sem ecki áhræra „geistlegra Embættismaña skyldur eda breytni „í Embættisverkum, skulu ecki álítast sem geist„leg mál, heldur án undantekníngar, hvert sem „vidkomendur siefnast sem málspartar eda vitni, „medhøndlast og dæmast vid þá almeñu Dómstóla."

13.) Skulda-mál, í hverju Náms- eda Feráns-Dómur ári og degi

(þ. e.: 1 ári og 6 vikum) elldri, hefir tapad útlags krapti, eptir Tilskipunum þ. 17da Maji 1690 og 20ta Martz 1795.

Þessháttar mál leggist fyrst til forlikunar, og kallast sá dæmdi, eins og í ødrum vitaskuldamálum fyrir Sættanefnd, ádur enn hann framar lögsækist. Tilsk. frá 18da Martz og Canc. br frá 19da Martz. 1796. Adgjætandi er: ad Dómar um bætur til Jústitzkassans, Christjánshafnar kirkju, Hospitala eda annara opinberra Stiptana, (eins því til útlags eda afplánunar sekta, samqvæmt Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, §. 9,) halda fullum krapti, þó eldri sen ári og degi, þurfa því ecki ad leggjast til endurnýunar Dóms, eptir Kóngsbrefum frá 12ta Oct. 1770, 31ta Aug. 1787, og 1ta Júl. 1791, þess vegna ecki heldur til Sætta-Nefnda.

14) Mál um Okur.

Þó ecki se leyft ad sættast um útsvar á okurrentum edur hærri enn lög leyfa, ber samt, eptir §. 10, ecki ad frávísa máli frá Sætt, sem einhverr hofdar um áskildar okurrentur, því Kóngsbref frá 2cta Júlii 1792, leyfir ad fráfalla málssókn og dómi um okurrentur, þó lagt se til Rettar, fallist bádir málspartar þar á, og okur-ákjæran ecki vyrdist full-likleg eda sonnud; en engri sætt vid Sættanefnd lyktadri fær sú undansærsla, vid utlag eptir henni, sidarmeir hneckt, ad okurrentur sen af skuld þeirri, sem hún áhrærir, krafdar eda teknar. (Samanber Tilsksip. 20ta Jan. 1797, §. 13 og 17.)

*B.*) Mál-

## B.) Málefni, í hverjum Sættanefndir ecki reyni Sættum, heldur vísir Réttir og adrir tilnefndir mest.

1.) Pólití-mál.

(um þau, sjá mína Handbók 1812, bls. 222—23)

§. 17. Í málum, sem kjæraſt fyrir Pólití-rétti, skal þessi Réttur sjálfur, þegar þau á-hræra privat afbrot (sjá Handbókina, bls. 223, skir. gr. a), reyna ad ákoma Sætt, ádur enn málid er fyritekid, án tillits til NL. 1-22-8.

2) Gestarèttar mál.

§. 18. Allteins sé farid med Gesta-rèttar mál, þar líklegt þykir ad þeim ecki megi fresta.

§. 19. Mál, sem tilnefnaſt í nærst undangengnum 2ur §§. ega þessvegna ecki ad leggjast til almennra Sættanefnda, en Sættir í hverjutveggja málum hafi sömu verkun og krapt, sem Sættir vid fyrrtjedar Sættanefndir. (þ. e. jafnt óraskanlegum dómi, eptir §. 30.)

Þó í fyrsta bragdi ecki ólíklegt sýndist, ad bædi sættir, sem fyrir opinberum Rjettum á Þíngi samdar eru og undirskrifadar af bádum málspörtum, þar auglýstar og jafnvel innskrifadar í Þíngbókina, hafa mættu jafnann eda engu minni krapt, en þær, sem semjast vid Sættanefndir, Pólití- og Gjesta-rjetti, einkum og Sættir vid Skipta-rjetti, fyrst Sætta tilskipanin (sjá §. 10 vid b), bls. 29) undanskilur Erfur í dánar- þrots- og uppbods-búum frá Sætta tilraunum vid reglulegar Sættanefndir, en skipar þó Skipta fyrirrádendum ad reyna til þar um ad ákoma Sætt, álíkt

Pólití- Gjesta- rjettum, eptir §§. 17 og 18, lósa. Þó 2 Canc. br frá 3ᵗᵃ Jan. 1801 og 4da Maji 1802 berlega, að hjer í landi engar aðrar eñ þær við Sættanefndirnar, Pólití- og Gjesta-rjettina ályktuðu Sættir, hvert sem fyrir oðrum Rjettum eða annarstaðar samdar eru, hafi lagakraft án dóms, til útlags eptir þeim, eins og hinna Sáttargjørðum er veittur, eptir §§ 19 og 30, jafnt við óraskanlega dóma. Eg segi hjer í landi, hafi engar Sættir aðrar enn þær hjer tilnefndu, jafnan krapt, þessum við óraskanlegann dóm, eða til útlagsgjørðar án dóms, en i Kaupmañahøfn gefur Sætta tilskip. frá 10da Júlii 1795, § 7-9, Staðar Yfirvaldanna þar (Magistrats) ánnnu Sættum sama rjett eptir Tilskip. og Instruxi þeirra frá 28da Aug. 1795, §. 8; líka Dómaranum við Hof- og Staðar-Rjettarins aðra Vitna stofu, Sjoar-Rjettinum og Dómaranum við Skulda-nefndina þar, og loksins Kóngsbref frá 11ta Apr. 1806, stóra Maglebys Undirrjetti á Eynnni Amager. vald til, með álíku gyldi við Sættanefndanna, Pólití- og Gjesta-rettanna, að fullgjøra Sættir.

3.) Krøfur í Dánar, Prots- (*fallit*) og Uppboðs-búum.

(Sjá §. 10. No 6, bls. 29.)

4.) Klogumál yfir Presti, sem neitar að taka verdslegann mann til skripta og altaris.

Þar hvilikt er um Prests Embættisverk, ber Yfirvaldinu, sem i þessu tilfelli er geistlegt, en ekki Sættanefnd að afgjøra þetta. Þessvegna visast henni til Prófasts, sem eptir NL. 1—2—12 reyni til að forlíka málið. Canc. br. 27da Jan.

og Plak. 1ta Febr. 1798, og Canc. br. 20ta Jun. 1801. Samanber skíríngar grein til No. 12, bls. 39.

C.) Málefni øldúngis undanskilin aðgjørð Sættanefnda, eru:

1.) Jústits mál.

(Sjá mína Handbók 1812, bls. 225, skír. gr. d.)

§. 14 Mál, sem af Rèttlætisins Tilsjónarmønnum ákjærast, eða þau, sem eptir viðkomandi Stjórnar-ráða (Collegia) eða Yfirvalda ráðstøfun høfðest, stefnast strax fyrir Rètt; þó skal það ecki skè í Rèttlætisins nafni fyrir áflog (óróa) eða ofríki, nema opinber rósemd þar við sè røskuð*). Þar af leiðir því, að hafi nockurr að ákjæra veittann ójefnuð á persónu eður eign, fyri hvern krefjast kynnu ofríkis- eða áfloga-bætur, ber sjálfum þeim, er óréttinn beið — geti hann ecki góðmótlegum jøfnuði og sættum náð — að ákjæra þessháttar mál við Dómstólinn, sem privat mál (sjá § 17, bls. 41.), en fái þar til fátæktar styrk (beneficium paupertatis) og Svaramann ókeypis, megni hann ecki sjálfur að sækja mál sitt fyrir Rètti.

Það

*) Cancellíbref þ. 16da Sept. 1797 útleggur þetta svo: „að einn, eða þó heldur fleiri, opinbert og djarflega fremji þau verk mót løgum, sem orsaki almennar og óvenjulegar sinnis-hræríngar manna."

Þad hefir lögvitrum mønnum þyrdst efasamt hvert øll borgaraleg mál t. d.: um jardaskuldir til opinberra Stiptana, adrar fjárskuldir til Konúngs, enn þær sem No. 5 bls. 50, eru undanskildar; eda um ábúdarbresti á hans eda opinberra eigna jørdum og s. frv., ætti ecki eptir § 10; fyrst ad leggjast til Sætta, þó høfdud verdi eptir Yfirvalda skipun, og hvert undantekníng þeirra máia, sem eptir hvílikum bodum høfdast, egi ad heimfærast uppá ønnur enn sakamál, í tilliti til og samburdi vid bodord §. 10. 13, og seinni hluta §. 14, eda uppá adra enn þesshattar bresti, sem Rjettvísin finnur orsøk til ad ákjæra. En — þar Kóngsbr. frá 6ta Nov. 1795, nefnt hjer eptir No. 5, bls. 50, undanskildi Sætta tilraun Jardabókar gjøld til Konúngs um vissa tíd, og Canc. br. frá 8da Jan. 1803, mál sem Stipts Yfirvøld fyrir opinberar Stiptanir høfda láta, og Hæsta Rjettar Dómur 1811, ásamt fleirum Yfirrjetta - Dómum, hafa skilid sama ad bera øllum þeim málum, sem Yfirvøld láta høfda, þó um borgarleg efni, eignir, gjøld, og skuldir sen, (nema ef þau sækja egid persónulegt gagn sitt eda gjøld) fylgja Dómstólar nú almennast þeirri meiníngu, en þó vafasom þyki enn í dag, bædi vegna ólíks bods Canc. br. frá 9da Apr. 1796, sem nefnt er vid No. 9, bls 35, vidvíkjandi Spítølum og opinberum Stiptunum, og þó einkum þar seinna Kóngsbr. frá 27da Febr. 1807, um Konúngs skulda krøfur í Vestindium, baud ad undantaka þær frá Sætt, hvad nockrir álíta, sem einstaka og serlega undantekníngu fyrir þau lønd, en almenna reglu ega ad vera í þesshåttar málum þá, sem Sætta tilskipunarinnar §. 10, fyrirleggur og nýnefnt Canc. br. þ 9da Apr. 1796. En lati adrir enn vidkomandi Stjórnarrád eda Yfirvøld mál høfda, þó um opinberar eigur eda

gjøld se, ber þau mál fyrst til sætta að leggja. Canc. br. 21ta Nov. 1797. Ekki er sjálfsagt, að hverr, sem vill eða þarf að lögsækja (sem á stundum leyfist) ráð Embættismanna eða Yfirvøld, leggi kjærumál sitt fyrst til Sættanefnda.

2.) Skuldakrofur eptir Vexilbrèfum. (Sjá skír. gr. til § 10 a) bls. 24—29, og Tilskipan þ. 2öta Jan. 1797, um vitnaleiðslur og vexla, etc.)

3.) Mál um ærukreinkjandi Sakargiftir gégn konúnglegum Embættis-mönnum.

§. 15. Lokssins ega N.L. 1—5—2 og 3—4—4, sem höndla um ærukreinkjandi Sakargiftir (áburð), gégn Yfirvalds-persónum og Réttarins þjónum, að vera gyldandi.

Þar þessir lagastaðir tilnefna einúngis Yfirvøld og Rjettarins persónur, mætti í fyrsta bragði halda, að skipan þessarar 15du greinar næði ecki til annara, enn þeirra Embættismanna, sem eginlega teljast með ódrumhverjum; þess vegna ecki til Presta, Lækna, Skóla-kennenda og s. frv., en seinni Fyriskipanir vilja, að undir sama skilyrði verði framvegis allir konúnglegir Embættismenn, og þeir, sem af Yfirvøldum settir verða um tíma til að þjóna þeirra Embættum, því Tilskip. þ. 27da Sept. 1799, §. 10 og 11, skyldar konúngl. Embættismenn til að höfða mál gegn þeim, sem í prentuðum ritgjörðum álasa þeim fyrir óráðvønd Embættis-verk, eða gefa þeim ærukreinkjandi sakargiftir, áhrærandi þeirra heimuglega líferni eða náttúrufar, og býður Canc. br. þ. 24da Dec. 1799, að þesskáttar mál, allt eins gegn settum

Embættismönnum af Yfirvöldum, um vissann tíma, eda til serlegra áqvedinna verka, skuli, medan þeir ad þeim Embættum þióna, undantakast frá Sætta tilraunnum, og strax leggjast fyrir Dómstólana. Og þó þvílíkt álas ecki se framfært gjegn hverjumtveggja Embættismönnum í prentúdum ritum, sem Tilskip. þ. 27da Sept. 1799 tilnefnir, heldur ad eins munnlega eda skriflega, ega þau mál, sem rísa af ákjærum gegn Embættismönnum, um óráðvendni þeirra í Embættisverkum, ad vera allteins frá Forlíkunar tilraun undanskilin og strax ad dæmast vid Rettina, eptir Canc. br. þann 8da Nov. 1804.

Nú má spyrja: hverja ber í þessu tilliti ad telja med Embættismönnum? Hreppstjórnarmenn? Forlíkunarmenn, Umbodsmenn setta til ad innkalla afgjöld Konúngs eigna, eda standa fyrir opinberum reikníngum? Sýslveina eda Póliti-þjenara? eg held: enga þessara, nema um Hreppstjórnarmenn tel eg lítid vafasamt, en samt vissara, ad telja þá med Embættismönnum; því þeir eru raunar í eldri og nýrri landslögum vorum tilskipadir fastir eidsvarnir Embættismenn, sem Tilsk. frá 13da Maji 1776, optar enn einusinni telur med Yfirvöldum, hverjum siálf landslögin leggja sektir vid óhlýdni ad sýna, og fela mörg mikilvæg verk á hendur; hverjum Konúngur vor þann 21ta Július 1808, því baud ad auka þad álit og myndugleika, sem þeirra Embætti útkrefur, en almúganum þeim ad hlýda; hverjir og hafa Amtmanna, eptir konúnglegum myndugleika og bodi, gefid Instrúx til Embættsverka eptir breytni þegid; umsjón fátækra fjár og framfæris; tillit med laga hlýdni og eptirbreytni og rjett um hmisleg afbrot ad ákjæra adra. (siá framar þeirra Instrúx bls. 44-46, og þeirra eid bls. 50-51, og Handbók ..una 1812, bls. 283-297).

Um hina sídarsitoldu verdur fátt af þessu saat, þar þeir einúngis eru ad álíta, sem sendisveinar og njósnarar Bóféogeta, er lítid edur alls eckert mega af egin ramleik gjøra, eckert urskurda, heldur allt eptir serlegri skipun í hvert sinn og fyrir hann, sem þjenarar hans. Hinir, sem hverki hafa neitt vald ad bjóda, nje úrskurda, gieta því ecki heldur med Embættismönnum talist; og ecki framar í þessari 15du greinar skyldu tilliti, þeir Embættismenn, sem laat hafa af ser Embætti, ellegar frá þeim ødlast lausn, nema ef ákjærdir yrdu um Embættisverk framin medan þeir høfdu þau á hendi.

Í framanskrifudum tilsellum verdur hjer samt þetta þreunt cintum athugaverdt:

1.) Ad ákjæran se framsærd fyrir Retti, eptir NL. 1—5—2 og 3—4—4, eda virkilegir og settir Embættismenn, med hverjum máské og mætti telja þá Talsmenn, sem ødlast hafa til stødugrar Talsmennsku, sem adal bjargrædis vegs, konunglegt Leyfis- og Embættis-bref, hvad engum enn er veitt hjer í landi — nje er uun sinn óskandi ad veitist, þar vidast hefir af þvílíkum leidt meira útdrag og ófridsemi fyrir Almenníng, enn verulegt gagn — verdi í prentudum ritgjørdum skuldadir fyrir órádvendni í Embættisverkum, eda gefnar þær ákjærur um heimuglegt framferdi þeirra og náttúrusar, sem sen fyrir þá ærukreinkjandi, eins og Tilsk. þ. 27da Sept. 1799, í §. 10 og 11tá ágvedur, hvar med Canc. br. 8da Nov. 1804 og vill telja munnlegar eda skriflegar af sømu tegund. Orádvønd Embættisverk og ærukreinkjandi sakargiftir, munnlega, skriflega eda á prenti gegn Embættismønnum, adgreina því mál þau, er undanskiljast Sætta tilraunum, frá ødrum þeim á mótl.

2.) Ad þessar seinni Fyrirskipanir, sem bjóda ad NL 1—5—2 og 3—4—4, sen í krapti, og mida allar til þess sama, ecki raska þødvdi

1—5—2, en álita eptir því naudsynlegt, ad sá Embættismadur, (hvert heldur er Dómari eda Yfirvald eptir 3—4—4, hver grein ecki umbreytir bodi þess fyrrnefnda lagastadar, en munu ljettast útleggjast því samqvæmt) sem til þínga ákjærist um óráðvendni eda breytni, sem hneckir hans æru, verdi þar á þínginu, annadhvert (eins og 1—5—2 tiltekur) játadur opinberlega sýknsaka (líklegast af áklagaranum), ellegar med Dóms frikjenndur, því nefnd lagagrein krefur: annadhvert løggylda játníngu eda Dóm um saklevsi hans. Líka eru þess nockur dæmi til stadfestingar, ad Cancelliid samþyckt hefir Sættir á milli Embættismanna og Sakar-ábera í þessum tilfellum.

3.) Ærukreinkjandi sakargiftir ber hjer í landi enn þá ecki ad meta eptir Danmerkur og Norvegs þarum í allmørgu hjer ógyldandi, heldur Islands egin og hjer løgleiddum lagabodum, og er þá adgjætandi: ad NL. 6 B 21 Cap. um ærukreinkjandi mál, ecki má álitast ad vera hjer løgleiddur, þó Tilskip. frá 27da Sept. 1799, í §§. 12 og 24, ad eins nefni til 6—21—2, 3, 7 og 8 artik., þar þessi Tilskip. eginlega er stílud fyrir Danmørku og Norveg, en ecki fyrir Island, enn þótt híngad ásamt send, eins og mørg ønnur, Island hverki eginlega skuldbindandi, nje hjer heimfærandi løg, sem því ecki heldur álitast mega hjer hafa innleidt (en undireins afmád landslaganna) allar þær greinir Danmerkur og Norvegs Løgbóka, eda Tilskipana, Kóngsbrefa, Urskurda, o. s. frv. er þær opt vitna til, en sem þó aldrei eru hjer þecktar, auglýstar nje tilætladar ad vera Island bindandi løg, eda sem þær, er þanninn óuefnt skuli afmá Islands egin og serlegu lagabodord, ecki ad nefna ad margar ega hjer alls eckert vid. Hjer vyrdist því bera náqvæmt tillit

til

til þess að hafa, hvað vor óbreytta lögbók met, ur moñum hjer á landi álíka ærukreinkjandi t. d. eptir Jónsb. Mannhelgis XXV og XXVII Cap. og Rjettarbótum Konúngaña Hákonar og Eiríks, sem í þá innfærðir eru, um Fullrjettis og önnur minni sjölmælis orð og qveðskap, eða hvar Jónsb. leggur við 4 marka sektir til Konúngs, optar á borð við 3 marks æruleysis bætur, eptir NL; í hverju tilliti þessi því vyrðast hentugri til samburdar, enn til að dóm beri einmidt að þeirra boði hjer um að grundvalla.

Annars er af fyrrtöldum lagagreinum auðráðið: að þar einúngis ákjæra um óráðvendni í Embættisverkum skyldar Embættismenn til að hreinsa sig þar frá með lögum og Rjettargángi, og undantakast því þesshattar mál frá Sætta tilraunum, giörir ákjæra gegn þeim um einberann ódugnað þeirra, eða hreckjalausa skyldu vanrækt, hverki naudsynlegt, að þeir sjálfir hösði mál þar um, nje heldur, þó það giruist, leyfilegt að skjóta þeim málum frá Sættaleitum ádur. En — þó þanninn hverki se serhverja ákjæru um yfirsjón Embættismanns í Embættisverkum að álíta, sem óráðvendni, nje hann ærukreinkjandi, er þó með þesshattar sidarst nefndu ákjærum þær að reikna, sem, ef sannar reynast, giora þann ákjærda öldúngis smánarlegann í almennings augum, þó lög ecki leggi ærutjón við þesshattar breytni.

4) Mál einusinni dæmd við Undirrétt, en sem stefnast til ædri Rèttar, og þau, sem med Rèttar- eda Yfirvalds-úrskurdi eru einusinni afgjörd.

Þesshattar mál og úrskurdir, t. d.: um tillög af fedrum óekta barna, sem eptir A) No. 10,

 blss.

blſ. 35, hafa fyrſt verid løgd til ſætta, en útſvarid ſídan af Yfirvaldinu úrſkurdad; eins þau, ſem eru vid Skipta- og Auktións-rettar úrſkurdi eittſinn afgjørd, koma ecki, þó þau áfrýiſt, til ædri Retta, eptir Canc. br. 26ta Júlii 1800, og 20ta Maji 1797, framar til Sættanefnda, nema bádir Málspartar þad girniſt. Canc. br. þ. 31ta Okt. 1795, §. 9, og 5ta Aug. 1797. Samanber ſkýringar gr. blſ. 28.

5.) Mál um konúngleg Skatta- og Jardabókar afgjøld, ſem ſamqvæmt NL. 5—13—51 eru ſoñud.

Kóngsbref þ. 6ta og Canc. br. þ. 7da Nóv. 1795, undantaka þeſsháttar mál frá Sætta tilraun, nema í því undir A) No. 8, blſ. 34 hjer ad framan tilgreinda tilfelli, ad þau ſtandi óútløgd yfir hálft ár. Sjá NL. 5—13—35.

6.) Mál um Skuldabréf eda viſſa Samnínga þeirra, ſem ecki eru fullmyndugir menn.

Mál, ſem 'um ſkuldabref eda Samnínga um peninga eda peninga verd, útgefin eda gjørd af þeim, ſem ecki eru fullmyndugir —nefnil.: eptir Jónsb. Frſb. IV. Kap. 20 ára, en eptir NL. 3—19—34 undir 25 ára gamlir— mega ecki fyrirtakaſt til Sætta, nema þeir ſamníngar ſeu af øllum hlutadegendum undirſkrifadir, innſigladir og uppáſkrifadir, og ſeu þau bref eda ſamníngar, ef eldri eru enn auglýſíng Tilſkipunnar frá 26ta Okt. 1804, endurnýadir, en ýngri gjørdir í vidurviſt Yfirvalds perſónu í kaupſtødum, Dómara á landinu, eda þeſs, ſem á bádum ſtødum gegnir Notarii

publicii Embætti (hier því Býfógeta eda Sýslumanns) og af einhverjum þeirra, vidkomandi og vitni uppáskrifadir, samqvæmt Tilskip. 26ta Okt. og Plak 14da Dec 18 4 En— med hvilkri athugasemd þessar Tilskipanir og ad hverju leiti vyrdast hier á landi heimfæraudi, sýna skíringar gr. til §. 22 og 30 hier á eptir.

7.) **Mál, sem hofdast gegn fjarlægum, annadhvert utan-ríkis eda Íslands, eda þeim, hverra heimili verdur ecki fundid.**

Þessi verda og eptir NL. 1—4—10, ad álítast undanskilin Sætta tilraun, vegna vandrædana, eda ómøgulegleikans ad kalla þá til Sætta, fyrir hvern áklagarinn á þó ecki ad tapa retti sinum — samanber §. 16 skir. gr., bls. 33—34 — En — komi sá ákjærdi hingad til lands aptur, þegar mál fyrir Retti eda Rettum gegn honum er hofdad, eda honum er stefnt, samqvæmt NL. 1—4—12 og Tilskip 3ja Junii 1796 § 16, er sóknarinn ecki framar skuldbundinn ad fráfalla fyri þad stefnunni, draga málid til þess ad leggja þad til Sætta, og þola nýann kostnad til stefnufara

Ad Dómar um bætur til vissra opinberra Stiptana, þó eldri seu ári og degi, þurfi fyrir þad ecki til Sætta og endurnýunar dóms ad leggjast, er sýnt undir A. No 18 í skír. gr. bls. 40.

Vid þenna Kapitula hefi eg enn ad bæta, eptirfylgjandi athugasemdum, Sættanefndum og ødrum til naudsynlegrar varúdar:

1.) Taki nockur Sættanefnd þau mál fyrir til forlikunar, sem henni eptir framantøldu ecki ber eda vidkom, á sú Sættagjørd ómerk og sem ógjørd

ad álítast, eptir Canc. br. frá 18da Maji og 17da Aug. 1799, t. d.: ad skipta bænum eda leudum, og semji leiguliði um eign húsbóndans án þessa fullmaktar. Sú ransókn mála vid skodun á þrætustødum, sem §. 12 bls. 31, leyfir Sættanefndum, midar því einungis til þess, ad Forlíkunarmeñ sjálfir þeckt gjeti framar begaja parta ástædur, svo þeir vid báda þessa fái þad eitt tillagt, sem þeim sannsýnast vyrdist til forlíkunar en ecki ad þeirra álit afgjøri þesshátar mál, í Dómarans stad; þar Sættanefnd er enginn Rjettur, eda hefir vald til um neitt med nockurri verkun ad dæma eda urskurda, hvert heldur nockurr løgspakur Madur fyrir henni stendur, eda ólǿgrís.

2.) Svo engin Sættanefnd þjóni ad forlíkunar málum heimildarlaust og til óuýtis, er heñi því naudsyn á vel ad kyuna ser fyrrtaldar undantekningar, nefndar vid C), blś. 43, etc. med þar ad lútaudi athugasemdum og varúd. Komi samt eitthvert þad mál fyrir, sem hún er efablándiu um, hvert henni beri um ad fjalla edur ecki, er henni þó óhultara, sjái hún ecki annadhvert fullv si, heldur ad taka þad fyrir til Sætta, enn ad frávísa því, med því §. 22, býdur þeim Forlíkunarmanni, sem vid kløgun tók, strax og uppá egin hønd, ad uppáskrifa fyrikall til Sætta, og vyrdist því ecki ætla honum, fyrst enginn Nefnd hefir logsøgn, neitt víst, um edli malsins þá strax ad ákveda. En — mæli annarhverr málsparta sídan fyrir Nefndinni þessa vegna mót þess fyriteckt, eda láti sig þar vanta, minnist hún þess í uppáskrift sinni á kløguuina. Sjái hún þar á mót augljóslega, ad þess háttar málefni se sættum fráskilid, neitar hún óhult fyrikalli i því. Vyrdist henni þar hjá málid helzt vidkoma Rjettvísinnar ákjærum, sem Sakamál, eda því náskyldt, er henni rádlegast strax ad leita þar um hennar nærsta Yfirvalds atqvæda, og eptir þeim ad breyta med fyriteckt þess. eda frávís-

um. Reyniſt ſamt vid framkomin rok fyrir Refnd-
inni, málid minna ſaknæmt eda Riettviſinnar af-
ſkiptum ſídur vidkomandi, enn eptir kloguninni á-
horfdiſt, er ſaklauſt í því ad ſemja Sætt, og ætíd
í þeim Sakamálum, ſem §. 13 Sætta tilſk. 20ta
Jan. 1797 nefnir, um rjett þeirra, er ſkada bídu,
t. d.: um ſkadabót, ígjøld, koſtnad, en ſe varaſt
ad neitt í ødrum verdi ſamid um Konúngs rjett,
ſjá NL 1—6—1', 1—22—8. Verdi klaga yfir
Embættis verkum Yfirvalda logd til Sætta,
mun beſt ádur ad beidaſt þeirra andſvara, hvert
fúslega mæta vilja fyrir Sættanefnd edur ecki,
ádur enn nockud um Sættir er ſóſlad, hverjum
vanſjed er, ad han vilji í þeim málum gegna.

3.) Hafi Sættanefnd fráviſad máli, vegna
þeſs, ad hun aleit ſer ecki bera þar í ad reyna
Sætt, en annarhverr málspartur hyggur þó añad,
er audvitad, ad reglulegir Undirdómarar ega um
þann ágreining ad dæma, því þá kemur málid beint
undir þeirra dóm, hvar einhverr málsparta bædi
framfæra kann laga áſtædur um, ad þad ádur hafi
átt undir Sætta tilraun ad takaſt, og því mót-
mæla þeſs fyriteckt vid Rettinn; líka ákjæra Sætta-
nefndina fyrir ránga fráviſun málſins, og þeſs-
vegna hafa ſjeſut henni til ad þola laga átalur og
Rettarins dóm þar um, einninn til málskoſtnadar
utláta. Fyrir hverjutveggja ſhniſt Canc. br. þann
2ann Nov. 1798, ad hafa gjørt ráð, er þad undir
eins gaf til kynna, ad Forlíkunarmenn ætíd vænta
mættu ad verda ſtyrktir med gefins málsvarnar
hjálp og Talsmanni kauplauſt, þegar einhverr
fyrir þeirra Embættisverk ſiefnir þeim fyrir Rett,
ſvo ad þeir koſtnadarlauſt fái framkomid mótmæl-
um og andſvorum þeirra gegn málsſókninni. Þó
vyrdiſt uppá þeſsi tilfelli ecki óhult ad heimfæra þá
ſerlegu undantekníngu, ſem Kóngsbr. þ. 19da
og Plak. þ. 30ta Okt. 1798, gjøra á ákjærum gegn
Sættanefnd fyrir fráviſun Umbodsmanna máls-

parta, án løgayldra orsaka, frá Sættafundi, hvarí Yfirvaldinn (Amtmanninum) bodid er fyrst ad reyna ad ákoma gódmótlegri Sætt, en náist hun ecki, skal strax stefna því máli beint fyrir Hærsta Rett, bædi vegna þess, ad álit um, hver mál beri án sætta tilrauna undir Rettar dóma ad taka, ednr ecki, vidkemur Embættisverkum serhvers Dómara, líka þess, ad óþarfur dráttur fjølda mála, og margfaldur kostnadur og rettarspillir vid málssóknir um þessháttar orsakast mundi, ef allar þvílíkar fyrst leggjast ættu til Hærsta-Rettar umdæmis, ádur enn mál þau yrdu í hjerødum dæmd.

Eckert finnst heldur í annann stad løgmætt, sem fríad gjeti Sættanefndir fyrir laga ákjæium vid Undirrjett fyrir þvílíka rángsleitni eda gáleysi, vid Sætta adgjørdir, því hverki eru þessar ad álíta, sem Yfirvalda Urskurdir, sem ecki mega leggjast undir Rjettar umdæmi, þar ed þær engin Yfirvøld eru, nje heldur sem Dómáraverk, er áfríast þurfi til Yfirrjettar, þar ed þær enga løgsøgn hafa, eda rjett til nockurra dóms adqvæda eda urskurda.

4.) Eida málsparta mega Sættanefndir aldrei taka, af því þær hafa alls enga løgsøgn; en Sætt má fyrir þeim semja med því skilyrdi, ad sinnar- eda sakargiftar-eidur skjeri sidarmeir úr málinu, og skal hañ seinna fyrir Rjetti vinnast, eins og þegar dómur uppáleggur hann málspartum. Canc. br. 5ta Nov. 1796.

5.) Þetta Canc. br. stadfestir þá annars líklegustu meiningu, ad málspartum se leyfileat ljúflega ad semja sín á milli, hvert heldur vid Sættanefnd eda Rjetti, ad eidur skjeri úr misklíd þeirra, og eptir því, sem hann unninn er, fari þeirra á skilin Sætt, líka ad ónaudsynlegt se, ad taka Dómarans stadfestingar Dóm, og leysi til þvílíks eids afleggingar Bjóda vor løg og, ad allir frívilugir samningar myndugra manna, haldist í øllum ordum og atridum um leyfilegt efni, þess

vegna eins um mála styttingu, kostnadar og mædu spornun med eidi hlutadegenda, sem bádir vel fallast á ad endi þrætuna, og þeir sjálfir bera fulltraust til. Líka vottar þetta Canc. br., ad eidur megi lykta Sætt, þó hann vinnast eigi á eptir, og einúngis fyrir Rjetti. Væri því sett til Dómarans atqvæda, hvert sá eidur mætti leysast, sem málspartum hefir vid Sættanefnd komid saman um, yrdi þad eckert annad, enn ad beidast dóms um, hvert haldast skyldi leysid, sem fyrrtjed Canc. bref hjer til gefur, ellegar Sætt hjer um samin fyrir Sættanefnd, sem §. 30 i Sætta tilskip. frá 20ta Jan. 1797, segir þó gylda jafnt óraskanlegum dómi, þó hverngt vyrdist sett í Dómara vald. Ad sönnu mætti sá eidur ísjárverdur vyrdast, ef adrar órækar røksemdir um málid væru nægar fyrir hendi, en hann á eptir verda kynni þeim gagnstædur, og þá torveldlega takast ega, med því NL. 1—14—5 í seinnstu løg vill, ad Dómarar dæmi málsvørtum eida; en fyrir því mun þó vart þurfa rád ad gjøra, ad sá sættist uppá mótparts síns sérúrfár-ejd, sem órækt gogn og skilríki hefir um sekt hans eda skuld í høndum, og veit hans rádvendni þar hjá tortryggilega Ad NL. 1—12—5 og 1—14—2, 4, og Tilskip. þ. 5ta Nov. 1723 — hver þó er ecki birt hjer á landi — banna sáfengilega og sjálfkrafa eida á þíngum, adra enn Dómarinn fyrileggur og leysir, midar einúngis til ad fyribyggja þeirra gjálifu, einrádu og heimildarlausu vaubrúkun, en ecki afslegaingu þeirra eida, sem bádir málspartar ljóslega hafa sættst á, og þeir eidar, leysir þessi Tilskipan, ad enda megi þrætur og strax vid Undirrett vinnast. Því samþyckir og hid konúnglega Cancellí, sem efsta Rettlætisins Umsjónar-Rád, ad menn vid Sættanefndir semji um, ad eidar endi þrætuna, en sú Sætt hefir ad løgum óraskanlegs Dóms gyldi. Þarámót vyrdist Sætt um málalok med eidfestíngu samin annarsstadar, og eins fyri Retti

nema Gesta- eda Pólití-rettur se, öllu heldur egar ad leggjast til Dómarans stadfestingar, um leid hann nuninn verdur, til hvers áheyrnar sá, sem sver, á ætíd ádur ad hafa löglega stefnt mótparti sínum.

Í skír. gr. vid §. 30, hefi eg til nefnt merkilegt dæmi frá árinu 1816, ad Cancellíid visadi, vegna átalinna verulegra brefa vid Sætt, (en ekki Sættar um eidsestingu) þessum brefum til Dómarans álits, um leid eidur eptir henni vinnast ætti um faderni barns, sem sá lýsti barnsfadir, samdi vid stúlku, ad hún mætti sverja sig ad vera, ef hann bæta skyldi henni rádspjöll og syrir barns-uppfóstur; ætla eg nú ad eckert muni gjöra eida ókta barna fedra um faderni, er þeir á stundum treglega, eda ecki vilja vidkannast, í nockru merkari, þó lög hiklaust leysi og fyrileggi þeim þá ad vinna, heldur máskje allopt ifjárverdari, enn (eins og hjer var umsamid fyrir Sættanefnd) eida Mædra um barna faderni. Opt er og fyrirfram audsjed, ad eidur, þó mál leggist til lagabrætu, megi loks úr henni skjera, t. d.: þá einhverr neitar hönd sinni, eda undirskrift á skuldabref, eda neitar gefinni fullmakt til samninga o. s. frv.; og er þá eins gott strax ad sættast uppá málalok med eidi lögsóknar- mædu- og kostnadar-laust, eins og ad útarma sig og mótpart sinn þar med ad þarflausu, ádur enn mál endast med eidum.

6.) Pantsetji skuldunautur eignr sínar vid Sættanefndar forlikun til lánardrottins, á ferleg pantsetning útaf fyri sig á löglegann hátt þar um ad utgefast, egi þetta med pantsretti ad koma þessum ad haldi. Canc. br. 29da Martz 1800, sjá skír. gr. til §. 30.

7.) Eptir NL. 1—22—28 og 5—3—33 og Plak. af 18da Jan. 1788, er þá, sem stefndir, dæmdir, eda fángadir eru fyrir skuldir, eda afbrot, af hverjum leida kann peninga útlát eda

annad fiártjón; eins þeſs, hverra eigur eru fyrrſettar — á medan þeir ecki eru med dómi frikenndir, eda hafa dómum med þeſshättar fullnægt — ad álita ſem ómyndugа til allra ſamninga um afhendingu fiármuna þeirra, og þeſsvegna til Sættа ſamnínga. Þó landslog vor, Jónsbók nefnilega, og ſeinni oſs hingad á land gefin log, eckert um þvílikt tiltaki, og fyrrgreinda ſeinni lagaſtadi (varla heldur NL. 1—22—28) ecki ſe ad álita oſs enn þá ſkuldbindandi, ſem óþínglýſta og ólogleidda á Islandi, eins og Plak. þ. 8da Junii 1787, um Kaup og Pantbrefa gyldi, þar Kóngsbref þann 2ann Maji 1732, einúngis baud hier ad fylgja NL. reglum og formi vid málaſóknir, en innleiddi ecki þeirra laga rett ad odru leiti, heldur baud: í ollu odru Islands egin logum ad fylgja, hvert bodord í þeſſu tilliti Kóngsbr. þ. 19da Febr. 1734 itrekadi og ſkierpti, munu þó Sættancfndum og Málsportum óhultaſt, ad forma ecki Sætta ſamnínga vid menn, ſem eru í því áſtandi, er fyrſtnefndir lagaſtadir umgeta, medan því ſvo er varid. Ad odru leiti er ecki efandi, ad þær lagagreinir, þó þíngtóſtar yrdu og logleiddar hier ſidarmeir, þirſtu þá um leid toluverda umbreytíngu, til þeſs ad verda landi voru hentugar, á medan regluleg Herads-þíng haldaſt ecki nema einuſinni á ári, og engar Pantbækur eru hjer logſkipadar, ecki ad nefna fleira, til þeſs ad bodordum ſagdra greina, eda Pl. 8da Júnii 1787, um þínglýſíngar á Stefnum, Dómum, Kyrrſetníngum, Sættum, og ſvo frv. verdi hjer fullnægt.

# III. Kapítuli.

## Um Sættanefnda skyldur, breytni í málameðferð, Sætta gyldi og fleira Sættastiptunum, yfir høfuð að segja, viðkomandi.

§. 20. Þeir, sem yfir einhverju hafa að qvarta eða það að ákjæra, sem eptir framantøldum ágreiningum má við Sættastiptun góðmótlega afgjøraſt ſkulu fyrifram ſkriflega eða munnlega, framfæra það fyrir Nefndina, og með það halda ſér til þeſs Forlíkunarmanns hennar, sem ecki er í bændastétt.

Þeſsi klagan þarf nauðsynlega að tilgreina bæði rjett eðli málſins og innihalda yfir høfuð allt það ákjæruefni, sem Viðkomendur ſíðar meir, kunni Sætt ecki á, ætla ſer að leggja undir løg og dóm, því annað leyfiſt Rjettum í borgaralegum málum ecki um að dæma enn það, sem til sætta hefir forgefins lagt verið. Vilji menn því ſíðarmeir fyrir Rjetti framfæra aðrar frekari eða nýiri krøfur, enn þær sem innibundaſt í klaguninni, má áðnr serilagi leggja þeirra áſtæður til Sætta, þó í ſama máli ſe, en því ecki fyrir það og að þeſſa brefts leiti, sem vafalauſt ber, með Dómi að verða frávíſað. Sömuleiðis ega allir þeir, sem hlut viljalega í málſókn, eða gagn eptirá af dómi hljóta, sameginlega að leggja þeirra ákjæruefni áður til ſætta, því, øðrum ber eckert með dómi að tileinka þeſs tilliti enn þeim, er Sætta leitað hafa um ſama málefni; ecki heldur ber að dæma um aðrar gjørðir enn þær, á hverjum klaga til Sættanefnda

tiáir ákjærunа ad vera bygda, þegar nockrar tilnefnir, sem best er yfir höfud tilgreint í þeirri klögun og stuttlega, en ecki er þörf ad ítarlega se svamtalid, svo ad menn ecki þar vid bindi sig ofmiøg vid ástædur og ákjæruupósta, og megi því sídar enga fleiri í málssókninni tilnefna, sem bygdarsen á sama grundvelli, nje heldur adrar röksemdir. Svo er t. d.: hentugast, þá stefnt er um skuld, af hverri rentur eptir handskrift eru áskildar, ad nefna skuldar uppbædina med rentum eptir þar um útgefinni handskrift, en ad ecki se framar tiltekid. Ecki heldur vyrdist þörf í kloguninni ad nefna serilagi krosu um báskildar rentur frá klogunarinnar dagsetníngu, sem bædi ma fyrir Nefndinni og sídar fyrir Rjetti án þess uppástanda og vænta ad fá, eins annann laga ard og ávoxt af ødrum eignum, sem ráda má af Vitnaleidslu tilsk. frá 20ta Jan. 1797, og af morgum fleiri rokum, ad rjettast reiknast egi, frá því mál er klagad til Sættanefnde. Hollt mundi áklegaranum og í klogun sinni ad tilgreina þá Sætta kosti, er hann jafnvel med skada og eptirgjøf rettar síns nockurri, vill bjóda til ad fremia frid og satt, þó hann, ef hún luckast ecki, ásetji vid løgsókn ad framsæra miklu hardari og fullar rjettartrøfur; eins þeim áklagada skriflega ad leggja fram þá sáttarkosti hann vill bjóda, því þad má opt bæta málstad beggja.

Þad er audvitad, ad klagan á ad afhendast þeirri Sættanefnd, í hverrar umdæmi sá ákjærdi býr, og hvar hans bústadar varnar-þíng er. Canc. br. 9da Apr. 1796, §. 1. og 18da Oktobr. 1800, og sú Nefnd á Sættun ad reyna. Se hún forgefins reynd vid adra Sættanefnd, er sú tilraun ómerk, svo málinu ber fyrir þad sídar ad frávísa Retti. Af kloguninni þarf ecki ásamt (Copíu eda) afskrift ad skila. Canc. br. þ. 31ta Okt. 1795. (Þó mundi Nefndinni rádlegast ad taka af henni afskrift, ef feinna yrdi af sama

manni sókt um fátæktar styrk og frí Talsmann í málinu.

§. 21. Svo að hverr einn vita megi, hvert hann í þessháttar efnum leita egi, á Nefndin opinberlega að kunngjöra þann tíma og stað, sem ágvarðast til að veita kjærumálum viðtøku, þanninn, sem 1ti Kap. §. 9 fyrirskipar.

Eptir ástandi vors lands, málafæðum hjer og eðru, sem talið er við §. 9, bls. 23, verður þessi auglýsing viðast hvar ónauðsynleg hjá oss, þanninn, sem §§. 9 og 21 tiltaka.

§. 22. Strax, sem einhver umqvartan eða kjærumál er innkomið, útgefi sá Forlíkunarmaðurur, sem við því tók, skriflegann Seðil, meðhverjum hann kalli báða Málsparta að mæta á vissum (stað og) tíma. Búi eða dvelji sá ákjærandi ekki í Umdæmi hans, kallist Fulltrúi hans, eða sá, sem hans vegna frambar klegunina. Kallseðillinn afhendist þeim, er klagar, hverr eð lætur hann birta Mótparti sínum, og leggur hann síðan sjálfur fram fyrir Sættanefndina.

Að sönnu mætti Tilskip. frá 26ta Okt. og Plak. frá 14da Dec. 1804, sýnast að gjöra það nauðsynlegt, að Tilsjónarmenn (Curatores) yngri manna enn 25 ára, ættu með þessum að kallast til Sætta-samninga um peninga útlát og annað, og kløgunium frávísa ella; en — á meðan N.L. 1—21—12, 13 og 3—19—34 eru hjer ekki løgleiddir, en Jónsb. Erfðatal XX—XXII. og XXVI. Frib. I. og IV. og Kaupab. II. XIV. og XXIV. Kap. teljast hjer í gyldi, og vor gyldandi løg hjer

á landi telja mann 20 ára og eins kénu mynduga, sjá Qvennag. II. og Kaupabálks X. Kap. vyrdist þess ecki þörf, nema þá ungri ega i hlut, enn 20 ára ad aldri (sjá C) No. 6. bls. 50—51. Ecki er því heldur þörf á ad kalla adra málinu eitthvad vidridna fyrir, sem ecki eru kløguninni vidkomandi, sem riettir hlutadegendur eda málspartar, þó einhverjum slikum, máls-sóknar formsins vegna, yrdi sídar til Rettar stefnt, þeim þó ákjærulaust. Fyrikallid teikniñ uppá kløgunina, og í því fyrikalli nafngreinist stuttlega hennar markverdasta innihald. Klagarinn teikni á þad nafn sitt, og ad hann viti þess innihald, en ecki þurfa Stefnuvóttar ad birta honum þad. Hann afhendir svo siálfur Stefnuvottunum Kallsedilinn til auglýsingar. Canc. br. 2ann Nov. 1798, 12ta Jan. 1799 og 27da Aug. 1796.

Málspartar stefnist ad mæta vid Sættanefndir um Dagmál (kluck. 9 f. m.) og þá skal málin fyritaka. Kallsedlarnir mega þanniñ lyktast: „Mál þetta verdur fyritekid eptir þess rod þann dag og (þann i sedlinum tilteknu) tíma dags, og álitst hverr málspartur, sem þá ecki mætir, óhlýdinn Forlíkunar Tilskipuninni, eptir hennar §§. 26 og 29." Canc br. 21ta Júl. 1798. Sama skal gylda vid Sættanefndir, sem vid Rettina, nefnil.: ad sá Málspartur, sem ecki mætir til þess tíma, sem hann stefndur er og upphrópadur, kjenni sjálfum sér skadann, sem hann þar af bídur. Canc. br. 1ta Dec. 1804.

§. 23. Þeir, sem eru tilskipadir Stefnuvottar í sérhverri sókn, birti Kallsedlana, og stadfesti skriflega, ad þeir séu af þeim auglýstir, eins og Tilskipan frá 3ja Júnii 1796 fyrisegir; þeir, sem innkallast, ega þar hjá fjøgra daga frest skilinn.

Í Kaupstødum (hverjir þeir sen, sjá í inni-haldi §. 7, bls 21 hjer ad framan) er aptans fyri-kall nóg fyrir þá, sem þar eiga heimili, en á Landinu er 4ra daga frestur tiltekinn vid §. 23 og Kóngsbr. 11ta Okt. 1799.

Hafi Stefnuvottar þanniñ vitnad um aug-lýsingu kallsedlaña, sem Tilskip. af 3ja Jún. 1796, §. 19-20, og Canc. br frá 25ta Jan. 1817, og 13da Martz 1819, bióda (samanber Handb. mina bls. 238-39 og Kl. póst 1819, No 2 og 11. bls. 17 og 163-64), þurfa þeir ecki þar um ad mæta vid Nefndina, en lista eiga þeir í hvert sinn ad af-henda henni yfir þángad innstefnd mál, eptir hver-jum hún lætur þau upphrópa til fyritektar. Ad auglýsa kallsedla til Sættanefnda einíngis hvar auktiónir vóru haldnar, til innkollunar skuldanauta eptir þær, og setja þar um skilmála vid auktiónir, fyribýdur Cancelli Umburdar bref frá 13da Martz. 1819, sem jafn-óleyfilegann samníng, sem um ad sleppa Sætta tilraun (sjá Klp. 1819, bls. 163-64). Canc. br. 3ja Dec. 1796, 12ta Jan. 1799 og 7da Dec. 1799.

§. 24 Fyrir birtíngu Fyrikallsins, gjald-ist sérhverjum Stefnuvotti 12 ßar, en sé Aklag-arinn fátækur, fá þeir eckert.

Í Kaupstødum fær hverr stefnuvottur ad eins 6 ßa eptir Tilskip. frá 10da Júlii 1795, §. 36, (sem hjer um er gyldandi fyrir Kaupstadina) en á landinu 12 ßa, og þad fyrir hvern einn, sem þeir birta Kallsedilinn, en Aklagaranum birtist hann ecki (sjá skír. gr. til §. 22, bls. 61), og leggur Aklagarinn út kaup þetta. Canc. br. 21ta Julii 1798 og 18da Dec 1802. Venjulegt ferdakaup fá Stefnuvottar ad auki, egi þeir framyfir 1 milu landveg eda hálfa milu sjóveg ad ferdast til þeirra, sem stefnast. Kóngsbr. 11ta Jan. 1799. Tregdist

Stefnuvottar ad framqvæma þetta-umbod, á Amtmadur ad sekta hvern þvílíkann útnefndann Stefnuvott, med hæfilegri sekt fyrir hvern dag, sem hann tregdast ad gegna því honum uppálagdá umbodi (samanber Canc. br. þ. 26ta Jan. 1793). En — eptir 2 ár má hverr Stefnuvottur fá lausn frá því, sem girnist. Canc. br. 12ta Jan. 1799.

§. 25. Málspartar, sem í sama Forlíkunar umdæmi búa, mæti sjálfir í egin persónu fyrir Sættanefndinni. Þó má leyft vera, hafi nockurr løglegt forfall, ad senda góðann (þ. e.: ráðvandann) mann fyrir sig, útbúinn med ánægjanlegri (þess vegna skriflegri) Fullmakt til ad forlíka málid vegna þess, er hann sendi; en aldúngis sé það fyribodid, ad hafa med sér eda senda sín vegna Talsmenn mála (Prókúratóra), til ad semja vid Sættanefndina.

Serhverr sem býr í sama forlíkunar umdæmi, skyldast til ad mæta í egin persónu, fyrir þess sama umdæmis Sættanefnd, hvert heizt, sem hans varnarþíng vera kynni, eins þó málid i ødru umdæmi bæri ad dæma, eda ad sanna løgayld og bevísanleg forføll, og þa ber honum þó ítarlega ad framfæra (skriflega) þá orsøk, sem neydir hann til ad senda annann fyrir sig. Þó nú Sætta tilskip. frá 20ta Jan. 1797, í §. 22, ecki tilnefni, hvert hedur Sættanefnd sú, í hverrar umdæmi Aklagarinn eda sá Akjærdi býr, egi Sættir ad reyna, er samt audvitad, ad eins og vid málssóknir er þíng haldid vid varnar þing ens Akjærda, ber Sættanefnd þeirri, hvar sá Aklagadi býr, málid fyrir ad taka, þó Aklagarinn búi utan hennar umdæmis. Eg segi býr, þ. e.: á fast heimili, þó hann um tíma dvelja kynni annarstadar. Tilskip. frá 20ta

Jan. 1797, gjörir ecki heldur (§. 22 ráð fyrir öðru, enn að Aklagarinn kuñi að búa utan Sætta umdæmis, en ecki sá Aklagaði. Canc. bref frá 3ja Okt. 1795 og 18da Okt. 1800, fastsetja og, að í öllum tilfellum; kallist serhverr Akjærður fyrir þess umdæmis Sættanefnd, hvar hans aðsetur eda heimili er, þó vera kunni í málum, hverra v·rnarþing se annarstaðar. Se hann Gjestur, þá fyrir Gjestarjett, en Klagara þeim, sem heimili stoðugt á utan Sætta hjeraðs, leyfist ætíð að láta annann fyri sig mæta. Canc. br. 2ann Apr. 1796, Plak. 30ta Okt. 1798, Kóngsbref 19da Okt. 1798. Samt verdur ecki af § 25 útleidd nein skylda fyrir Umboðsmeñ Aklagarans, sem utan umdæmis býr eda erlendis, að mæta í egin persónu fyrir Sættanefnd, þó búi í sama umdæmi.

NL. 1—10—1 sýnir hvað løgleg forføll seu, nefnilega: sjúkdómur, sem gjöri honum ófært að mæta; hindrun við konúngleg Embættisstørf; málaferli (á sömu tíð) við ædri Rjett, (en sem vyrdist affakanin vel mega vera, þó við annann eda Undirrjett se), og að hann þá í sömu tíð egi að verja fasteign sína; en likt má vyrdast um aðrar eigur, því Kóngsbr. 19da Okt. 1798. bætir við forføllin: „ystirvofandi tjóni af forsómun stórnauðsynja, bús- og heimilis-anna, hverjum ecki mátti fresta." Þessi forføll er samt ecki nóg að bera fyrir; þau verda að sannast með gyldum vitnisburdum góðra manna, framfærast fyrir Nefndina, enn sannast á síðan fyri Rjetti.

Það vyrdist samt athyngaverdt, að ecki hverr einn sjúkdómur verdi hjer álitinn, sem løggyld forføll frá fundi við Sættanefnd, svo dráttur eda frestur á Sætta tilrannum þar eptir dragast megi, þar þessi §. 26 býður í þeim tilfellum að senda fyrir sig annann Fulltrúa, eins þegar svo ástendur, sem nýnefnt Kóngsbr. þann 19da Okt., gjörir ráð

fyrir

fyrir, heldur ber einúngis Sátta tilraunum sjúkdóms vegna ad fresta, þegar Nefndin fær vitneskiu um, ad Málspartarinn (sem innann umdæmis hennar dvelur) se af þeim sjúkdóms tilfellum bagadur, er bædi gjøri honum sjálfum ómøguglegt ad mæta á rjettum tíma, eins ad hafa ræn og ráddeild edr faung á ad útvega sér hentugann Umbodsmann til Sætta samnínga sín vegna, því annars mætti sá, sem haldinn er lángvinnri krøm eda veiki, t. d.: af elli, fótaveiki og þesshattar, er þó ecki svipta hann ráddeild, árum saman fá skotid sættum á frest, ef ecki hirdti um, þó mætti, Umbodsmann med gyldri Fullmakt sín vegna ad senda; eins sá, sem eptir Plak. frá 30ta Okt. 1798, lengi mætti fyrirbera: „tjón vid forsómun bjargrædis útvega sinna."

Fjærvera þess ákjærda, þá kalladur er til Sættafunda, t. d.: á ferdareisu, afsakar hann ad sønnu frá málskostnadar bótum fyrir mótþróanlega útivist, gjeti hann þeirrar sønnudn orsakar vegna ecki sjálfur mætt eda mæta látid til Sætta, en — skuldbindur hverki Klágarann til fyrikalls mótparts síns á ný til Sætta, þar hann einnsinni hefir løganna bodi hjer um fullnægt, nje heldur heimilar Dómurnm eptirá þeirrar fjærvistar þess ákjærda vegna, ad frávísa málum. Se gagnsøk reist gegn fjarlægnm á ferd eda erlendis um mál, sem Umbodsmadur þessa hans vegna sækir, ber Umbodsmann þann i hins stad til Sætta ad kalla fyrir þá Nefnd, hvar sá Umbodsmadur býr.

Sá sem ødrum gefur Umbod til ad mæta sín vegna til Sætta, verdur því ad vera vidbúinn, ef málid á sídan kjemur til þínga, med røkum (þó ei med kostnadi til þíngvitnatecktar þar um) ad sanna forføll sín, frá því ad mæta sjálfur, se hann í sama Umdæmi, og ítarlega ad hafa framfært þessi røk fyri Nefndina, þó Rjettinum en ecki

 henni

henni beri ad meta þeirra aðldi á eptir, ad sá, er hann sendir i sinn stad, hafi næga fullmakt og se medtækilegur, þ. er: sem §. 25 segir, gódur eda rádvandur Madur haldinn. Bresti hann þessi skilriki, má hann vidbúast ad verda dæmdur i málskostnad, eins og fyrir útivist. Annars ber þeim málsparti, sem fyrir Rjetti uppástendur mótpart sinn fyrir útivist dæmdann til málskostnadar, ad frambera krøfu til hans um løglega sønnun forfalla hans, frá því sjálfur ad hafa gjetad mætt, ádur enn hann fyrst eda seinast leggur mál sitt þar undir dóm, því sídar ber þá krøfu sem ótimabæra ad meta. Embættismenn i sama Umdæmi, vyrdast ecki gjeta skorad sig undan móti vid Sættanefnd, vegna upphesdar þeirra eptir RL. 1—13—4, ecki heldur vegna Embættisanna, sem hægt er æ fyrir ad bera, nema itarlega tiltekin og nafngreind sen, og eptirá fyrir Rjetti sønnud, egi þau frá málskostnadar útlátum ad fría. Eu Stiptana og Sjelaga vegna sýnist nóg ad Umbodsmadur þeirra med gyldri fullmakt mæti, þar óþarst er alla þeirra vidkomendur til Sætta ad kalla.

Vid §. 5 og 6, bls. 18-21 hjer ad framan, er til þess bendt eptir Canc. br. 3ja Júnii 1797 og Tilsk. 10 Júlii 1795. §. 13, ad Rikisstjórnin medfram hafi minna traust til kosigæfnis þeirra manna, ad forlika mál, sem hag nockurn kunni hafa, brauds eda innteektar auka af málaferlum manna, hvers vegna Undirdómarar og Talsmeñ ecki mættu veljast til Forlikunarmanna. Som er því orsøkin hjer ad bægja Talsmønnum frá ad mæta fyrir adra enn sjálfa sig vid Sættanefnd, og frá því ad mæta fyrir Eckjur, þó þeirra Løgverjarar sen, þar þetta er Sætta Tilskipananna ordum og tilgángi gagnsiædt; þó undanskilst, seu þeir Rádsmenn Dánar- og Uppbodsbúa, eda Forverjarar ómyndugra, sem ecki geta

þar mætt eda sókt rett sinn, og eru samníngar þeirra skuldbindandi ómaga, þó þessir sídarmeir, er ur ómegd komast, megi hina þar um ákjæra. Talsmenn mega því mæta vid Nefndina i þeim málesnum, sem þeirra ómyndugum vidkoma, og fyrir þessi bú, svosem þeirra ástandi kunnugastir; þó skulu þeir, til ad geta mætt vid Sættanefnd fyrir Dánar- eda Uppbods-bú, sýna þar til útþrycki-lega Fullmakt Skiptarettarius, Lánardrottins eda Erfingja. En hafi þeir Talsmennsku vid Retti sleppt, og aptursktlad fengnu leyfi til hennar, mega þeir úr því mæta fyrir alla.

Þeir, sem ecki hafa utþryckilegt leyfi ad abla ser brauds med Talsmennsku, heldur eru ad eins af og til settir af Yfirvöldum til ad tala málum manna, mega ecki heldur mæta þar fyrir adra, ecki heldur mega Talsmanna Fullmekt-ugir eda Skrifarar mæta fyrir Parta, sem eru innan Nefndarinnar umdæmis, og ecki þeir Rettarius Embættismenn, sem ásamt hafa Talsmennsku leyfi, mæta fyrir adra vid Sættanefndir. Tilskip. 10da Júlii 1795, §. 38. Canc. br. 3ja Júnii 1797, 22ann Apr. 1797, 2ann Apr 1796, 15da Dec 1798, 27da Júlii 1799, Kóngsbr 9da og Plak 3 ta Okt. 1798.

Loksins vyrdist pad nú leida af Tilsk. frá 8da Jan. 1802, ad eins og þessi laagasetning fyribýdur hardlega serhverjum þeim, sem er Fullmektugur nockurs Dómara, eda honum í Embættisverkum þjónandi, alla Talsmennsku, eins öllum Skrifurum vid Rettina og þeirra þjónum og Fullmektugum, vid þann Rjett, sem sá Dómari situr, hverjum hann þjónar, eda vid þá Rjetti, sem Undirgefnir eru þeim Yfirrjetti, vid hverja þeirra Embætti eru, og öllum þessum sameginlega öll afskipti nockurra þeirra mála, af hverjum rísa má missklid milli parta, og undir þeirra Rjettar úr-

skurd sídar meir koma kann, svo megi nú framar þessir menn engir fyrir Sættanefnduni mæta annara vegna, í þeim umdæmum, sem liggja undir þá Dómara eda Rjetti, hverjum þeir, sem Skrifarar, Fullmektugir eda Medhjálparar eru áhángandi. fyrst Canc. br. frá 3ja Jún. 1797 (sjá skír. gr. til §. 6, bls. 18-21), tortryggir og vill því ecki lída Undirdómara afskipti af Forlíkunar málum vid Sættanefndir. Kóngsbr. af 19da Okt. 1798, sýnist því med nefndri úngri Tilsk. af 1802, í þessu tilliti vera umbreytt, hennar anda, samqvæmt

Af leyfinu ad senda gódann (þad er: rádvandann) Mann fyrir sig til Sættanefnda flýtur, ad enginn løgfelldur eda ílla kyntur madur, er þar medtækilegur fyrir annann. Þess vegna er og serhverjum, sem settur er undir laga ákæru Rjettlætisins vegna, á medan bannad ad mæta vid Sættanefnd fyrir adra, þar ed rádvendni hans, uns dómur rettlætir hañ, vyrdist á medan efasöm. Canc. bref 14da Nov. 1801.

Mæti nockurr vid Sættanefnd fyrir adra, sem ecki hefir, eptir ádur sögdu, rjett eda hæfilegleika til þess, eda løggylda Fullmakt, eins og þessi §. 25 tiltekur, skal Sættanefndin honum burtvísa, sem óhæfilegum, hvad Nefndin þá innskrifar í bók sína, og uppá klögunina, og er þá klagan, sem ógjørd ad álíta, ef áklagarann eda gyldañ Umbodsmann hans vegna vantar. Canc. br 28da Okt. 1797. En — áskii nockurr: ad Sættanefndin án løglegra orsaka neitad hafi ad veita Umbodsmanni hans vidtøku, skal Yfirvaldid (Amtmadur) med gódu reyna til ad jafna þessháttar misklidir, ádur enn mál þar út af rís, en takist þad ecki, svo til løgsóknar koma kynni, þá se þeim málum stefnt beinleidis til Hæsta-Rjettar, og þá mega Forlíkunarmenn vænta þar ad verda styrktir med gefins málsvarnar hjálp og Tals-

manni kaupkauft, svo ad þeir ecki bídi útlát og skada vid ad neydast til Forsvars þeirra Embættisverka, Plak. 30ta og Kóngsbr. 19da Okt 1798.

§ 26. Ef nockurr, sem kalladur er til ad hlýda á sáttar samnínga, afsakar sig frá ad mæta, eda lætur sig vanta án sannadra og leglegra forfalla, þá skal hann (samqvæmt því, sem N. L. 1—5—7 býdur), svosem sá, er hafnar sætt, og fortakslaust girnist løgsókna prætur, dæmast til ad gjalda mótparti sínum málskostnad, þegar málid med Dómi úrskurdast.

(Kóngsbref 19da og Plak. 30ta Okt. 1798.)

Mæti áklagarinn ecki, eda sendi eptir §. 22 Umbodsmann sín vegna med gyldri Fullmakt, álitst hans inngefna klagan sem marklaus, hvers vegna málinn verdur ecki fyrir Rjett stefnt á medan hann ecki fullnægir bodi Sætta tilskipananna þar um. Canc. br. 28da Okt. 1797, §. 3. En sanngjarnt er ad áklagarinn, sem ecki mætir, gjaldi Sættanefndinni og Stefnuvottum þeirra ágreedin laun. Canc br. 9da Apr. 1796, §. 7. Þó Nefndina er málid samt best ad taka fyrir í sinni røð, gjeta útivistar áklagarans í Forlíkunarbókinni, med uppáskrift á kløgunina, og hvert sá áklagadi hafi mætt, þó ecki verdi meira adgjørt, svo þetta komi bádum til reiknings med og mót, komi sama mal aptur fyrir, til hvers þá aptur þarf nýa kløgun.

Þó nú sá ákjærdi, sem mætir, þegar áklagarann vantar, egi ad þessum ómakslaun og ferdakostnad, verkfall og jafnvel bót fyrir gabb og mædu, líkt og Nefndinni og Stefnuvottum bera þeirra tiltekin laun í þessu tilfelli, eptir áþeckum laga ástædum, sem N. L. 1—4—34 og Tilskip. 3ja Júnii

1796, §. 5 og 14 tilnefna, hefir þó engin Nefndrett ad áqveda neitt um þessa kostnadar endurgjald til ens áklagada, þar hun alls enga løgsøgn hefir (sjá No. 2, blf. 52), en vilji áklagarinn gódmótlega ecki láta þad þeim áklagada i tie, hvert sem hann optar leggur sama mál fyri Sættanefnd edur ecki, verdur þessi þar um ad kalla hinn fyrir Sættanefnd, og sídan fyrir løg og dóm, komist sætt ecki á.

Þad er án efa varúdarverdt, ad sá áklagadi láti sig vanta til Sætta, verdi hann aptur um sama mál kalladur fyrir Sættanefnd, því sú afbatan, ad hann einusinni hafi í því máli mætt, en sjálfur áklagarinn ecki, fríar hann oldúngis ecki frá málskostnadar útlagi, komi hann ecki í seihvert sinn løglega kalladur á Sættafund forfallalaust, því annars yrdi Málsportum þar med leyst, þegar mál girnast heldur med løgsekunum útkljád. en med sættum, ad hafna ollum tilraunnum þar um ad ésésju, eptir samkomulagi: ad ann. nuhvern skyldi ávallt vanta á vixl til Sætta sammunga. Ad áklagarinn annars ecki sektast eins og sá áklagadi fyrir forfallalausa utivist med málskostnadar útlagi, heldur ad hinum leyfist med ítrekudum gabb-fyrikollum til Sætta ad ángra og baga sinn mótpart án þvílikra sekta, verdur þó máskje, sem forrett hins ad álita, eptir Canc. br. 28da Okt 1797, No 3, þó ervidt vyrdist ad sýna sanngirni svo ólíkra bodorda um fráleitar afleidingar af beggja útivist frá Sættanefnda fundum.

Þann Part, sem ecki mætir fyrir Sættanefnd eptir þessum § 26, ega Dómarar ad dæma til bóta til Justitskassans fyrir óþarfa þrætur, undir eins og hann dæmist til málskostnadar útláta, því eins og sá, er hafnar mót viljuglega Sætta tilraun, og vill hafa óþarfa þrætur, á hann hier fyrir óþarfa þrætu, ad sektast og um malskostnad eins, þó malid vinni; þó ecki nema

til fyrsta, Það er: Undir-rjettar fyrir útivistina eina; en falli hann á málinu og tapi því, ber honum ásamt að bæta mótparti sínum timaspillir, við forgefins komu til Sáttafundar og fyrirkalls kostnaðinn. Canc. br. 12ta Jan. 1799, Tilskip. 23ja Dec. 1735, §. 1.

Sættafundur á að birjast um dagmál (kl. 9 f. m.), eptir því, sem Partarnir framkoma. En, hvern þann, sem þá lætur sig vanta, skal Sættanefndin láta upphrópa, áður en fundinn slitur, og gefa svo þeim, sem þá mætir, vitnisburð um hins útivist. Canc. br. 21ta Júlii 1798. Önnur þvingunar medel eru ecki lögskipuð. Plak. 30ta Okt. 1798, og Canc. br. 12ta Jan 1799. (sammanber skr. gr. við §. 22, bls. 60, 61).

Ef annar Parturinn sjálfur mætir, en fyrir hinn Umboðsmaður hans, hefir sá, sem sjálfur til Sætta kom, hafi þó ecki af þeim getað orðið, við málssóknina rjett til að krefja af Mótparti sínum að sanna, að sjúkdómur, eða annars yfirvofandi stór-tjón af forsómun mikilvægra skyldna, hverra fyllingu ecki mátti fresta; við skylduftorf, handverka- eda heimilis naudsynja-annir, hafi bægt honum frá að mæta, fyrir Sættanefndinni í tíma, sem Rjetturinn síðan á að meta eptir lögum, sanngirni og hlutanna Náttúru. En sanni hann þetta ecki að hafa verið sitt løglega forfall, þar til krafinn, á hann með Dómi tilskyldast að bæta mótparti sínum málskostnaðinn, eptir þessum §. 26. Kóngsbr. 19da og Plak. 30ta Okt. 1798. Canc. br. 12ta Jan. 1799. (Sjá skr. gr. til §. 25, bls 63—65.)

Mæti hvorugur partanna sjálfur, en annar þeirra síðan sanni framantalin forføll, má hann eins krefja hinn Mótpartinn, sem ecki heldur sjálfur mætti, undir sømu sekt, til sønnunar hans løglegu forfalla. Kóngsbr. 19da og Plak. 30ta Okt. 1798.

Mæti hvorigur partanna sjálfur, eda neitt þeirra vegna — sem henda kann, ef bádir á medan hafa ødruvísi sættst, eda samid um ad skióta sætta tilraun á frest, og af fleiri orsøkum — minnist Sættanefndin þess í bók sinni, og vyrdist áklagarinn samt ega ad gjalda Nefndinni og Stefnuvottum rett kaup, sem fyrr segir, um hans útivist, eptir Canc. br 9da Apr. 1796, § 7. bls 69.

Sanni hvorigur forfoll sín, en málid komi fyrir á ný eda því verdi frestad til fyritektar vid Nefndina, annadhvert, ef henni svo vyrdist þorf á, eda ad beggja partanna vild, álítst sá, er í sídasta sinni mætir þar til Sætta, ad hafa fyllt skyldu sina, ef hann bidur þá til leka sátta vidleitni, og gegnir henni sem ber, en hinn ecki, er þetta afrækir, eda lætur sig þá til samninga vanta, þó fyrri hafi mætt; ber þá Nefndinni þeirra funda og utivistar í vitnisburdum ad gjeta. Sá, sem lætur sig vanta til Sáttafunda, fær ecki bætt ur þeirrar útivistar í fleidingum eda ødrum Sættabréfum med nýrri Klogun málsins til Sætta, nema med samþycki Mótparts sins; einkum vanti hann Kl.g.de, þarf til nýrrar fyritektar samþycki áklagarans, hverr annars er ecki optar skyldur um þad mál ad mæta, hverjm einusinni er vísad til rettargángs, nema sjálfur svo vilji, eda ný serleg framhalds klaga, ellegar og mótklagan Málsparts komi fram, um hverjar þarf nýar Sátta tilraunir, til hverra þá og verdur jafnskyldt ad mæta, eptir fyrikalli Nefndarinnar, sem eptir adal-Kløgun málsins, undir somu sektir ella. Vanti þá áklagarann, veitist honum ecki vid Rjett, frestur til nýrrar klogunar og dráttar á málinu um framhalds kløgu efni hans, vegna bodords Tilskip 3ja Junii 1796, §. 14.

Þad tilfelli kan á stundum mæta, ad skuldunautur eda annar, sem gjørir samníng vid einhvern um kaup eda søln, afhending, utlát, verk

eda annad, skuldbindur sig til ad láta ser lynda, í málum, sem þar af leida kynnu, fyrirkall til vissrar Sættanefndar og þess auglýsingu fyri vissum tilnefndum Manni, jafnvel þó ecki búi, eda dvelji hann í því Sætta-umdæmi (eins og stefnulaust á stundum, ad þola ákjærur og dóm þar um, á ødru enn hans varnarþingi). En — þar Sættanir þar vid megnlega kunna ad hindrast, eins og vidóleysilega samninga um ad sleppa Sætta tilraun, og birta fyrikøll til Sætta á ótilhlýdilegum stødum, (sjá skír gr. blf. 15-16) og Nefndin á hverki med Sætta tilraunir þeirra mála, hvar sa ákagadi dvelur utan Sætta hjerads, nje Málspartar ad semja um þesshattar birtíngar fyrir óvidkomendum, gagnstædt Sætta løggjafanna bodum og tilgángi, hverjum øllum hlutadegendum er jafnskyldt ad hlýda, ber henni eckert fyrikall til Sætta ad útgefa, nema sá ákjærdi búi eda dvelji í hennar umdæmi, og fyrirkallid verdi honum sjálfum þar løglega birt, hvert sem hann mætir sjálfur sídar edur eigi, eptir §. 25, eda sannar forfoll sin, sem Rjettunum á sídan, og eins útivist hans, ber løglega ad meta. Þó vyrdist Sætt gyld, sem bádir hlutadegendur i egin persónu samid hafa fyrir annari reglulegri Sættanefnd, enn þeirri, í hverrar umdæmi sá ákjærdi býr; og Nefndinni saklaust, eptir beggja bón, vid sjálfa þá sætt ad semja, þó hún ecki rett hafi til ad kalla þá fyrir sig, eda fyrir adra enn hlutadegandi Nefnd stefna megi málspørtum. Ecki heldur vyrdast málspartar þeir eptirá fyrir þá sok framar sá Sættum hrundid En — sættalaust mót fyrir óvidkomandi Nefnd, á ad orsaka frávísun mála frá Retti til hlutadegandi Nefndar, ef sá ákjærdi þar mótmælir þeirri tilraun, edur hefir ecki til sætta mætt.

§. 27 Sættanefnda samkomur ega ad haldast innan luktra dyra.

Þetta bodord, ásamt innihaldi nærstfylgjandi §. 28, sýnir ljóslega, bædi ad sjálfum Forlíkunarmonnunum er ætlud su rádvendni i þessu kalli þeirra, ad halda, ad því leiti ber, serhverju því heimuglegu, sem vid Sættanefndir kann fram ad fara medal þráttandi málsparta, svo ad þeir ecki bindist af ótta fyrir utbreifingu þess, þeim til vansa, er bádum i þrasi sleppa kynni af vorum um þrætumálid; I ka ad i sama skyni ollum ødrum er fyribodid á þeirra vidrædur ad hlýda, svo eckert af þeim útberist eda verdi vidkomendum til falls eda hneysu malignu vidvikjandi umvitnad. Hverrar þagmælsku skyldu, og þeirrar, ad láta allar sátta tilraunir framfara ollum óvidkomandi leynt, serhverr rádvandur Forlíkunarmadur, ætti ja nan sem vandlegast ad gæta. Samanber hjer um skír. gr. til §. 28,

§. 28. Svo ad vidkomendur hafa megi besta fulltraust til medalgaungu Sættanefndarinnar, og einardlega og opinskátt reyna til ad koma sér saman um, vinsamlega ad semja um endalok þeirra misklidar, skal þad vera øldúngis fyribodid, bædi ad útgéfa vitnisburdi og leida vitni um þad, sem Málspartarnir vidkannast eda stinga uppá fyrir Sættanefndinni, nema ad því leiti bádir þeir fallast á, og sem þad innibindur veruleg atridi sjálfrar Sættarinnar. Því skal alls eckert skriflegt útgéfa, komist gódmótleg Sætt ecki á, um þad, sem fyrir hefir komid (kjærumálid snertandi), en þad skal álítast, sem marklaust og ógyldt.

Í þessu tilfelli skal einúngis afhenda Áklagaranum aptur kjærumál hans, med þeirri uppáskript: ad gódmétlegri Sætt hafi ecki vid Sættanefndina ordid ákomid, og ad málinu þess vegna sé vísad til úrlausnar vid Réttargáng. En hafi klagan munnleg verid, gésist Sóknaranum einnig vitnisburdur um: ad kjærumál hans hafi verid fyrirtekid til forlíkunar, en forgéfins

Margt er nú athugaverdt í tilliti til þessarar 28du greinar Sætta tilskipunarinnar. Þar á medal tel eg, á stundum vera kunna:

1.) Ad sá áklagadi mótmæli ad mæta fyrir þeirri Sættanefnd, sem hefir hann fyrir sig kallad, annadhvert af því, ad málid se þess edlis, ad henni beri ecki þar um ad fjalla, eda ad Parturinn se ecki vid hennar afmarkada umdæmi bundinn, eda ad þar se ecki hans eda málsins varnarþing.

Ur þesshattar mótmælum vidkemur Sættanefndinni ecki, heldur Dómaranum ad skéra, þá málid kjemur fyrir Rjett, þar hún eptir ádursögdu, á bls. 52, alls enga løgsøgu hefir, en hún á samt þeirra mótmæla ad minnast í þeim vitnisburdi, sem hún ritar á kløgunina, og gefur áklagaranum um málsins fyrirtekt. Canc. bref 3ja Júnii 1797. Hvert varnarþíng se til Sætta, sjónir skír gr. til 20 §. bls. 59, þó má eg geta þess hjer til varúdar, ad enginn ákjærdur frá ødru umdæmi, staddur á ferdareisu, kann reglulega ad kallast fyrir Sættanefnd hvar hann staddur er, heldur fyrir Gjestarjett, sem þá eptir § 18 og 19 bls. 41, reynir í hennar stad ad forlíka Málspartana. Þad sem Sættanefndinni því helzt ber í søgdu tilliti ad athuga, er, hvert málid se ecki þess

eðlis, sem B) og C) hjer að framan bls. 41-57, undanskilja hennar aðgjörðum, sem þó einkanlegast ætti að yfirvegast, áður en hún nockurt Fyrikall í því útgefur. En — se málið ecki þessháttar, viðkemur henni alls ecki, þó hinn ákærði framberi, að áklagarinn ecki se rjettur Söknari málsins, fyrir það að vísa málum frá, þar um að dæma eða þessa í vitnisburðum að geta, vegna þess hún, sem fyrr segir, alls enga lögsögn hefir, eptir Canc. br. 3ja Jún. 1797 og þessi mótmæli eckert snerta hana.

2.) Segji nockurr til síðu þá ryrðingu, sem hann er skyldugur að veita Sættanefndinni, á hún það að bóka, og, eptir ásigkomulagi og yfirsjóninni, annaðhvert aðvara hann og aminna, ellegar senda Cancellíinu útskrift af bókinni þar um, til frekari ráðstöfunar og ákæru. Canc.br. 18da Nov. og 6ta Dec. 1797.

En ef svo við ber, að málspartar mæta fyrir Nefndinni svo ölvaðir, að óhæfir sen til samninga, þá ber Nefndinni að leiða þeim fyrir sjónir það ósæmilega í þessari breytni þeirra, hvar með þeir gleyma þeirri vyrðingu, sem þeir eru umskyldir, bæði sjálfri lögagjöfinni, og Mönnum þeim, sem Konungur sett hefir til að halda henni í heiðri, og síðan vísa þeim burtu, með boði um að koma í annað þá tiltekið skipti til Sáttafunda, og ega þá báðir Partar að láta innfæra í bókina, að þeir rallist á eptur að mæta, án frekara fyrikalls, sá ölvaði gðruvísi til reika fyrir Sættanefndinni. Canc. br. 12ta Jan. og 31ta Dec. 1799.

3.) Skriflegt Tilsvar við Sættanefndir, er eginlega, ecki að álíta, sem lögskipaðann máta til að jafna misklíðir, þar §. 25 krefur, að viðkomendur mæti í eginn persónu, eða Umboðsmenn þeirra með gyldri (skriflegri) fullmakt, í þeirra sjúnuðu löglegu forföllum. (samanber Kóngsbr.

1ᵭda og Plak. 30ta Okt. 1798.) En — verdi samt þar med Forlíkun nád, má bref frá þeim, er ecki mætir, um sáttar skilmála medtakast (aðars er þad ad álita, sem hann hafi ecki mætt). Canc. br. 23ia Júnii 1798.

4.) Eins og menn eru skyldir ad vötta Sættanefndinni vyrdingu vid Sætta samningar, svo á hverr og einn, ecki sídur frammi fyrir heñi enn annarsstadar, ad gjæta skyldu sinnar í ordum og athøfnum vid Mótpart sinn, og ecki hugsa, ad med því Sætta tilraunir framfari iñan luktra dyra, og þessi 28da grein Tilskipunnarinnar hanni ad utgefa neitt skriflegt eda vitna þad, sem fyrir hefir komid, þá gódmótleg sætt kjemst ecki á, se þeim leyfilegt eda óhult þar ad áreita og meida hverr annann í ordum eda verkum. Nei! einúngis þad, sem þar fyrirkemur því máli vidvíkjandi, sem forlíkast á, eda sem í þess tilliti er nyppástúngid eda vidkaunast, má ecki útgefa vitnisburdi eda leida vitni um, þá sætt ecki kemst á, svo Partarnir ecki med þesshattar vidrædum þar, spilli málstad sínum eptirá fyrir Retti. Sættafundurinn er þess vegna tilætladur ad vera óhultur samkomustadur til sídsamra og sanngjarnra fridarsamnínga, en ecki til jognuar, módsyrda og ósvekta ósaknæmt; því — meidi þar nockurr sinn mótpart, annadhvert med inngefnu skriflegu tilsvari eda munnlegum orda-tiltækjum, má Nefndin hverki neita þeim áreitta Parti, sem beidist, um bókun þess, og serhvers hann meidandi, sem í ordum eda verkum framñ fyrir Nefndinni framfer, nie heldur um afskrift þess, þegar hann óskar; ecki heldur, verdi þad ecki krafid bókad, þá sídarmeir um eidfestann vitnisburd Nefndarinnar, eptir Rettarstefnu þar um til þíngs,

Canc. br. 10da Okt. 1795, 18da Nov. og 16da Dec. 1797. 27da Jan. 1798.

5.) Sættanefndin á í Forlíkunarbókina fyrst að rita stutt innihald kærumálsins, og síðan þá klagan er munnleg, hennar stutt innihald í vitnisburðinn, sem Nefndin um útfallið gefur, hvern vitnisburð báðir Forlíkunarmennirnir ega að undirskrifa. Canc br. 31ta Okt. 1795. 28da Júlii 1798. Annars er allra best, og í §. 28da tilætlað, að Nefndin riti þenna vitnisburð uppá Aklagarans eginn skriflegu kløgun, og afhendi honum síðan, hvar við og sparast að útskrifa kløgunina.

6.) Þó annarhverr málsparta við Sættarsamnínga, tjái sig ósáttgjarnann og ósannsýnann, að Forlíkunarmannanna áliti, og mótviljuglega hafni medtækilegum sáttarboðum, ellegar vyrði Nefndarinnar tillögur litils, eða neiti að sýna henni skjøl þau, sem útkljá kynnu aðal þrætu-efnið, hvað Canc. br. frá 14da Marts 1807, segir í en gán tilfelli að vera Málsparta fullkomna skyldu, ecki heldur Sættanefndum bera að álykta neitt um gyldt eða ógyldt form skjala, sem Málspartar fyrir sig bera, er Sættanefndinni samt øldúngis fyrirboðið, að minnast þessa með einu orði í þeim vitnisburðum hún ritar á kløgunina, þá sætt kemst ecki á, með hverjum málinu vísast stuttlega til rjettargángs, beint með þeim einu orða tiltækjum, sem §. 28, bls. 74—5 fyrirleggur, en engin frekari má hún leyfa ser, nema ef skje kynni síðarmeir, í því tilfelli, sem skír. gr. til §. 38 mun ávikja, ásamt því í skír. gr. No. 1, bls. 75 tilnefnda. Canc br. 9da Apr. 1796, §. 3, 4, 12ta Maji 1804 og 14da Marts. 1807.

Því er, eins og eg tilbendt hefi í skír. gr. til §. 20, bls. 59, ráðlegt bæði áklagaranum að láta kløgun sína innihalda þá kosti, með hverjum hann bóður sætt, ef hann þykist í þeim jafnvel til minna hafa eptirgefið af rjetti sínum, og eins að sá ákjærði skriflega afhendi Nefndinni, hver kjør hann sér til friðar jafnvel með halla sínum á standum, þykist bjóða best, hverr þeirra sér til afsøknnar frá þrætugirnis álasi síðarmeir fyrir Rjetti. Því þó §. 28, banni Nefndinni að útgefa vitnisburði, þá sætt kemst ekki á, um hvað fyrirkomið hefir, uppástúngið eða umsamið verið á báðar síður, til að gjøra málsparta djarfari, einlægari og minður óttaslegna um, að hvað þeir sýna eða játa, og við Sættanefnd bjóða hverr øðrum, komi þeim síðar að gjaldi, ef sætt kemst ekki á, og að mótpartur nýti sér þetta gegn þeim við Rjettarkrofur og málssókn á síðan, enn þótt N. L. 1—15—3 ásamt þessari 28du grein vyrðist nægilega að vernda sérhvern við þeim háska, stípar sú henni samt, að afhenda áklagaranum aptur kjærumál sitt með uppáskrifaðri frávísun þess til Rjettar, og þá ber klagan sjálf þessa Sættakosti með sér. Líka mun Nefndin varla neita þeim ákjærða um sannaða útskrift kløgunnar, sem ekki má telja með Sætta samníngum, eða þess, sem hann sjálfur hefir skriflegt lagt fyrir Nefndina, sé ekkert vitnað um Mótpartsins tilsvar, eða aðra samnínga þeirra, og sýnir sú útskrift þá sáttaboð hans, ef hann síðar framleggur hana fyri Rett; en neiti Nefndin henni, má láta aðra samhljóða útskrift birta Áklagaranum með 2ur stefnuvottum eða Hreppstjóranum, og þar í geta þess, að kjørin sen þau sømu, sem' honum áður hafi forgefins boðin verið við

Sættanefnd, en sem enn þá frambjódist honum, ádur enn í málinu verdi stefnt, óska svo þar um hans vottanlega svars; hvers vegna optar má þesskonar skilríki ødlast í tíma, til afsøkunar fyrir Rétti sídarmeir, þó Sættanefndum se bannad um Sætta samnínga ad vitna greinilegar, þá mál ecki forlikast.

7) Vid þenna 28da artikula og hjer seinastnefnd 3 Canc. br. veitir samt ervidt saman ad koma bodordi NL. 1—5—7, sem bjódur Dómurum ad dæma þañ Sóknara til málskøstnadar útláta, sem ecki vill sýna mótparti sínum þau gøgn og skjøl, á hverjum hann byggja vill løgsókn, þegar þessi beidist, til ad komast hjá henni, heldur vill fortakslaust hafa málid undir løg og dóm, á hverju lagabodi, álíkt í §. 26, (sjá bls. 69), þó er grundvallad um málskøstnadar útlát af þeim, er hafnar sættum, annadhvert med þvi ecki ad mæta fyrir Sættanefnd, eda þar ad votta frekañ óvilja á sátt, en alla vidleitni ad birja þrætu med løgsókn. Hvert nú málspartar láta þenna óvilja á sætt í ljósi fyrir Sættanefnd, med neitun ad sýna þær ástædur þeirra og gøgn, þá mótpartur hvers þeirra eda Nefndin beidist, sem sanni krøfu þeirra og rett, eda løgmæta undanfærslu, hverja þeim áhjærda, þegar hann þvílíka fyrirber, er jafnskyldt ad sanna, sem Sækjandanum ákløgun sína, ellegar þessi neitan framsær fyrir Rjetti, má jafnsaknæmt virdast eptir NL. 1—5—7; eins þó óvilja þenna sýni med ødru móti, t. d.: ad koma ad eins á Sættafund, til þess þar med ad forra sig vítum, en vilja þó enga Sáttarkosti heyra, engar ástædur máls síns framsæra, ellegar ecki bída endalyktar á Nefnd-

Nefndarinnar Sætta tilraunum, eda ecki mæta optar, se málinn til sætta skotid á frest, eda hann verdi á ný fyrirkalladur, ellegar ecki ansa þeim, eda mótparti hans, sem allt væri jafnaugljós óvilji á Sætt, eins og aldrei á Sættafund ad koma, og þarhjá frek vanvyrda vid Nefndina og Løggjafarans gódgjarna tilgáng med Sætta-stiptanir, eins vid laganna bod í 1—5—7, hvers vegna undantekning frá bodi §. 28, og fyrrtiedra Cancellibrefa másskie þó vyrdast mætti ecki óhentug í þessháttar tilfellum, eins og Canc. br. þ. 3ja Júnii 1797 leyfdi þvílíka í ødru, engu markverdara tilfelli, hier í skir. gr. til þessa 28 §. No. 1, bls. 75—6 tilnefndu, þegar einhverr mótmælir ad mæta fyrir Nefndinni, hvers þá er leyst ad geta í vitnisburdi hennar um fyriteckt málsins.

8.) Þad hefir verid nockrum Sættanefndum tamt, litid gott ad vilja leggja til sætta, á medan ecki allar røksemdir til málsins sønnu upplýsíngar væru fengnar, og af Málspartum Nefndinni tjádar, svo ad hún ecki stíngi uppá ósanngjørnum sáttabodum eda mæli fram med þeim. En þar þessi regla allopt má tálma Sáttagjørdum, og Sættastiptana adal-tilgángur fyrir hana tapast, vyrdist sú Nefnd nærst koma takmarki skyldu hennar, sem leidir málspartunum fyrir sjónir, hvad ávanta vyrdist til þess, ad full laga røksemd se framkomin um serhvad, sem hverr Málsparta ástelur annann um, eda færir ser til málsbóta; hversu kostnadar og mædusamt muni ad útvega hier um fullnadar skilríki, og reynist eda sannprófist þetta eda hitt, sem samvitska Málsparta heimuglega sannfærir þá um, hvad helst verda kunni á sídan, hverr sætta samníngur í bádum tilfellunum þá mundi hollastur, jafnvel svo, ad bádir slaki nockud til, eda gefi eptir af ímindudum hardasta retti þeirra;

 þarf

þarf Nefndin þá ecki ad ásaka sig um rángláta edá óþitrlega breytni med þvílikum tillögum, því síđur, sem hun, eptir þeim 3ur, sídast í skir. ar. No. 6, blí. 78, nefndu Cancellibrefum, má ecki krefja, sem fullkomna skyldu, ad málspartar sýni og framleggi fyrir hana öll skilriki málsins.

Vidvíkjandi naudsynlegri varúd Forlikunarmanna vid tillögur þeirra um sættir og skynsamlegustu breytni þar vid, vísa eg þeim til þeirrar ecki ómarkverdu hugvekju þar um, sem Inngángur þessa Bæklings gefur, blí. 4—8.

§. 29. Láti nockurr (áklagadur) sig af mótvilja vanta (til Sátta-samfunda), gefur Nefndin þeim, sem mætir, vitnisburd þar um, svo ad þessi fái notad sér hann vid sókn málsins fyrir Réttum.

Í skir. gr. til §. 25 og 26, blí. 64 og 69, er sýnt hvad af því leidir, þegar áklagarann sjálfann eda gyldann Umbodsmann hans vegna vantar til sátta samfunda, líka hverr Umbodsmadur þar se medtækilegur fyrir málsparta hönd, sem lögleg forföll hafa frá ad mæta sjálfir vid Sættanefnd, og hverjum þar se bannad ad koma fyrir adra. Þessi §. 29 inniheldur eginlega þá lögmáls grein, sem áhrærir útivist þess áklagada, eda gylds Umbodsmanns hans vegna. Vanti hann sjálfann eda medtækilegann Umbodsmann í tíma vid Sættanefndina fyrir hans hönd, eda þenna lögglda fullmákt, eda, þó fullmaktin se gyld, se hans sendi Umbodsmadur, óhæfilegur til samnínga hans vegna, af rekseindum, sem §. 25, med skir. gr. þar til framtelja, álítur Nefndin þann áklagada, sem mótþróanlega vantandi og hafnandi sátt, getur þess í bók sinni og vitnisburdi, sem hún ritar uppá klögunina, og vísar því málinu til

rjettargángs. Canc. br. 28da Okt. 1797, 21ta Júl. 1798.

§. 30. Komist sætt á, skal náqvæmlega bóka samnínginn, med øllum hans tilteknu skilmálum, og ega málspartar hann ad undirskrifa (í bókinni), kunni þeir þad. Skal þá þvílíkur samníngur, sem þeir ásættast, sama krapt og verkun hafa, sem óhneckjanlegur og óraskanlegur Dómur, hverjum og þess vegna skal med sama hætti fullnustu veita, undir adfarar þvíngun (Execution) án frekari lögsóknar.

Þad er því heldur naudsynlegt ítarlega og náqvæmlega ad orda og bóka samnínginn med øllum hans tilteknu skilmálum, sem hann eptir þessari grein, hefir krapt vid óraskanlegann dóm. Nefndinni ber því med serlegri athygli ad orda og bóka hann í svo reglulegu Formi, ad þetta oldúngis leidi þá þrósta til lykta, uppá hverja Partarnir hafa sættst, svo ad ógreinilegt Form, eda tvíræður stýll Sættarinnar, gefi ecki tilefni til út úr þessu ad leggja nýi nýar Þrætur. Þad er annars audvitad, ad Nefndinni, þa Sætt einhver kemst á, ber ad gefa bádum málspørtum þeirra samníng eptir bókinni utskrifadann ordrett og undirskrifadann af Nefndinni.

Tilskip. frá 10da Júlii 1795, §. 44, leggur málspørtum á valld, ad semja um, hvenær sáttagjørdinni skuli fullnægja, því er þad vafalaust, ad hafi þeir ordid ásáttir um lengri frest til þess, enn ár og dag, (þad er: eptir NL. 5—2—4, 1 ár og 6 vikur.) hefir skuldaheimtarinn ad honum lidnum rjett til, án frekari umsvifa, ad fá samnínginum fullnægt; en — megi þeir eptir

þessum 44 artik. semja, ad þad, sem sættin áskil-ur, gjaldist ecki af skuldunautum, fyrr enn ad ljónu ári og degi, mega þeir þess heldur áqvarda, hvert krafan gjaldast skuli smámsaman med tiltekinn millibili tímans, jafnvel þó þessir gjalddagar samanlagdir, tækju lengri tíma enn ári og degi samsvarar; því má skuldaheimtarinn í bádum tilfellum hafa rjett til, án endurnýunnar, ad fá þeim samníngi fullnægt, þó svo, ad hann ecki dragi adfor um þad yfir ár og dag, framyfir serhvern áfallinn gjalddag, þvi annars þarf endurnýunar dóms um kröfu, sem þá verdur til útlags úreldt, og þá fyrst þarf nýrrar forlíkunar vid ádur, til hverrar Sættanefndir ecki mega neitá þá ad taka þesshattar úreldtar kröfur. Plak. 13da Aug. 1798 og Canc. br. 7da Dec. 1799.

Þar Sætt samin fyrir Sættanefndum er ad gyldi jöfn vid Dóma, ber hana allt eins og þá ad birta vidkomendum löglega, ad minnsta kosti, med 15 daga fresti til fullnægjugjördar, eins og vid Undirrjetta Dóma er áskilid, ádur enn eptir henni megi útlag gjörast. Canc br. 23ja Maji 1807.

Medal annars útsvars, vid hvert serlegir gjalddagar og venju lengri frestur til Sætta fullnægjugjördar framyfir þann Undirrettar dómum áskilda, optarst tiltakast, er einkum útsvar Manna, sem skilda eru vid Konur sínar ad lögum, edur og ad bordi og sæng, þessum og ecktabörnum þeirra til framsæris; en — þar ed §. 16 Tilskip. frá 20ta Jan. 1720 (bls. 32—33) med þar ad lútandi seinni fyrirskipunum, ætlast til, ad ádur enn skilnadur veitist, ætid se um þá skilmála vid Sættanefnd samid, med hverjum þau hjón sættast uppá adskilin ad lifa, verdur einúngis í þessu tilliti spurning um fullnægjugjörd þeirrar Sættar, hvar um sama má í ollu tilliti gylda, sem um Sætta fullnægjugjörd yfir höfud er sagt,

og nær Sættir til útlags úreldist (sjá bls. 84). Hér hjá er adgætandi: ad um þesshættar tillaga tilsvar til fráskildra qvenna og barna framfæris, af Mønnum þeirra og fedrum barnanna, ega þan ádur gefin log í Tilskipan frá 14da Oktobr. 1763 og 10da Dec. 1790, áhrærandi tillög óekta barna fedra børnum þeim til framfæris, af Yfirvøldum ad heimfærast til útlags því áskilda útsvari fyrrverandi Ektamanna til þeirra fráskildu qvenna og barna, samqvæmt Tilskip. frá 10da Aug. 1799. (Sjá bls. 35—36.)

Þar ed Forlikun fyrir Sættanefnd samin, med hverri nockur hefir skuldbundid sig til einhverra gjalda eda útláta á vissum tíma, eptir þessari 30tu grein (Tilsk. 20ta Jan. 1797) hefir krapt og gyldi vid óraskanlegann Rjettardóm til útlags, þá ber um þessara Sætta Forrjett og ordu vid útlagsgjørd edur adfør eptir þeim, eins ad breyta og log skipa um dóma. Þó á þvílíkri sætt ad þínglýsa þann fyrsta (manntals) þingdag á varnarþingi ens skuldbundna, bædi Rjettinum til leidarvísirs og ødrum, svo ad þeir fái ecki ókunnugleika þar um fyrirborid. Canc. br. 17da Dec. 1799. Utlag má þó eptir sætt allt eins gjøra med fullum rjetti, þó hún verdi ecki þínglýst fyrr enn á ødru þingi þar eptir, samqvæmt NL. 5—3—39. Canc. br. 5ta Aug 1806. Engum má heldur neita um, ad fá þínglýst gjørdri sætt vid Sættanefnd, hverja helzt skilmála sem hún inniheldur, þó gefur hennar þínglýsing vidkomendum ecki annann eda meiri rjett enn fæst vid námsdóms þínglýsingu, þann nefnilega: ad skuldunauturinn eins lengi og Plak. 18da Jan. 1788*) (sem þó hjer í landi er óþínglýst) tiltekur,

*) Eptir þess §. 4 er þad fyrir Dóma ár og dagur frá Dómsins degi, nema þeim þíng, lýsta Dómi se til ædri Rettar stefnt, og mál,

hindrast frá ad selja sitt góts, en, ef serleganu pantsrjett skal þar med ødlast í vissum hlut, verdur pantsetningu hans þarhjá og serilagi loglega ad útgefa, sem síðan þinglýsist. Canc. br. 3ja Martz. 1804, Tilsk 25ta Maji 1804, §. 15, sjá stir. gr. No. 6 bls. 56. A medan þingahøld hjá oss eru ecki reglulega optar enn einusinni á ári, verdur þessi þinglýsing sætta hjer opt til einkis, þegar sættum verdur fullnægt, ádur enn þingad er. Einúngis vid lánga gjalddaga fresti eptir Dómi, eda Sætt, má þinglýsing þeirra hjer ad haldi koma.

Hjá Gjaldkjerum Konúngs — svo sem hjer Landfógeta, jafnvel og Sýslumønnum og ødrum, er standa ega árleg skil fyrir tekjum og jarda afgjøldum til Konungs — má ecki í skuldamálum útlag gjøra eptir Sætt, fyrr enn Rentukammersins leyfi þar til er fengid, eptir aæsna skirslu hjer um; þó vyrdist sem hjá ødrum enn þeim fyrstnefnda, mætti hjer útlag framfara eptir Sætt eda Dómi, med samþycki hlutadegandi Amtmanns, hverjum ætíd er kunnugt, hverjar Konúngs skuldir standa ógoldnar hjá serhverjum þessara. Því skal til vissu um rett Konúngsins kassa, útþryckilega vid serhverja sætt, sem samin er vid Sættanefndir, á milli þvílíks Gjaldkjera og hans lánardrottins, áskilja, ad Sættin ecki skuli hindra rett

---

id þá vid hann ecki útkljád, hvar um Rettinum, sem dóminum var þinglýst vid, gefist vitneskja, og þá má sá þínglýsti dómur lagakrapti halda, eptir NL. 1—22—28 og 5—3—33, enn þá 1 ár og dag; en kyrrsetníngar gjørdir og stefnur til Yfirretta í skuldamálum, vardveita, ef løglega þinglýsast, vidkomandi lánardrottnum þeirra forrett fyrir yngri samníngum, sættum, dómum, kyrrsetníngum í ár og dag frá þeirra þinglýsingu.

Konúngsins kassa hjá þeim Gjaldkjera, eptir Kammerrettar Ordunni frá 18da Martz 1720 og Tilskipan þann 30ta Jan. 1793, Canc. br. 2ann Nov. 1799.

Ef Sætt gjörd vid leigulida um vegi, girdíngu eda annad Landsdrottins eign vidkomandi, þarf Landsdrottins samþycki til hennar ad vera fengid (í tilliti til NL. 3—14—29, 1—2—15, 1—4—1 og 13), egi sættin ad haldast. Canc. br. 17da Aug. 1799. Þar fyrir má Sætt vel fullgiörast vid leigulida, án þess ad þessháttar málum se vísad frá Sættanefndum, vegna vantandi heimildar frá Landsdrottni, en þessum ber eptirá ad gylda eda ónýta Sættina.

A medan vor gyldandi lög hjer á landi ecki giöra greinarmun á hálf- og full myndugum í þeirra rettar tilliti, og ecki hafa fyrirskipad hjer Tilsjónarmenn (Curatores) med úngmennum frá 18 til 25 ára aldurs, verdur sætt um serhvad vid ófatladann 20 ára gamlann mann eda ógipta konu, sem eru myndug eptir Islands lögum (Jónsbók), fullgyld, þó hvörkra Tilsjónarmenn ecki ásamt hafi sættina samþyckt, sjá bls. 60—61. I Danmörku hvar DL. 1—23—12, 13 og 3—17—34, eins og Tilskip. 26ta Okt. og Plak 14da Dec. 1804, giöra mikinn greinarmun á hálf- og full-myndugra giördum, vísadi Canc. Ursk. þann 28da Dec. 1816, þeim á bls. 56 umgjetna samníngi hálfmyndugs manns, til hvers stadfestíngar Tilsjónarmadur hans ecki var tilqvaddur, til Dómarans álits, í máli, hvar bónda sonur, sem lóstur var Fadir, lofadi fyrir Sættanefnd ad gialda Stúlkunni rádspjöll, og fyrir barnid uppfóstnrs peninga, ef hún sværi sig ad vera þess Födur, en vildi þó sídar fá leyfi ad stefna þeirri sætt fyrir Hærsta Rjett, þar ecki fullmyndugur verid hefdi, sem Canc. öldúngis aftók, en vísadi málinu til Dómarans atqvæda, ef sá lósti mótmælti Sættarinn-

af gyldi, þess vegna, þegar hañ, med Tilsjónarmañi haus, yrdi skeſndur til ad heyra Stúlkuna ſverja hann ad vera Fødur barnſins.

Hjer af má nú ráda: 1.) Ad þegar Sætta ſamnínga gyldi er mótmælt regna verulegra breſta, eda um ſætta gyldi þeirra breſta vegna er vaſi, beri reglulegum Undirdómurum annadhvert ad ſtadfeſta þá eda hneckja þeirra gyldi med dómi, ſem ſiyrkir þær í ſkír. gr. No. 3, blſ. 53, þarum alkt framfærdu áđurdur. Eins má Dómarinn, ef útlags er beidſt eptir þvilíkri Sætt, og henni þá verdur mótmælt verulegra breſta vegna, annadhvert med urſkurdi dæma þau mótmæli gyld eda ógyld, eda víſa þeim til reglulegra Dómara adgjørda, ſem allt gjørir Undirdómara álit hjer um naudſynlegt. Ad Cancelliid hjer hafi í tilnefndu máli ætlad Undirdómara bædi ad taka ejdinn af ſtulkunni, og undir eins ad dæma um ſátta ſamnínga gyldid, ef pilturinn þá mótmældi því, er og audſkilid, því annars hefdi þad víſad ákjærunñi til Hærſta Rjettar, en ekki þeſs Dómara, ſem ejdinn medtók. 2.) Ad Sættir, þó ſyrir Sættanefndum lyktiſt, þeſſa vegna ecki eru ætíd ad álíta, ſem óraſkanlegir Dómar, eptir §. 30, eda lengur eñ þángad til þeim vegna verulegra breſta verdur med dómi hneckt, vid reglulegann Undirrett.

Nockrir af þeſſum breſtum kunna allopt vera Nefndinni óþeckfir þegar ſætt framfer, og þeſs edlis, ad ecki fái henni ad gjaldi komid, þó Sættin eptirá dæmiſt ógyld, en nockrir líka ollad henni ákjæru og útláta, hvers vegna henni ber ad íhuga vandlega ad fordaſt allt, ſem hún hyggur ad koma megi henni eda ødrum til ſkada eda hneckja adgjørdum hennar.

Hjer ad tjá og tína allt til, er eptirá megi telja til verulegra breſta, og ſem ógylda megi ſætt, er hverki hægt nje þørf, þar nóg er nockra til

bæmis og til hugvekju ad tilnefna, svo sem: se annarhverr Málsparta ómyndugur (sjá þar um skir. gr. blf. 60-61 og 87-88), sálkadur eda ræningi, skerdkur, druckinn edur ecki sjálfum ser eda eigum sínum rádandi ad løgum, vegna sávitsku, elli eda eydslusemi, t. d. ørvasa gamalmenni, ómagar, børn í sielagi, Próventumadur, med slagd eda vjelum, ógunn eda naudúng, fieladur eda neyddur til sætta. Se sætt reynd um sølu ómyndugra fasteignà, án Konúngs eda Yfirvalda leyfis (sjá Jónsbókar Lbr. 1. Kap), eda ef leitad er sætta vid leigulida vidvikjandi Fasteign Húsbóndans, hans skyldum, gjøldum eda verkum án hans Landsetanum þar til gefins umbods, eda horsi sætt ødrum enn Málspørtunum til baga, skada eda útgjalda þar til ótilqvøddum; se hennar leitad vid sánga, illvirkja eda steinda um skuldir (sjá skir. gr No. 7, blf. 56—57), eda um mál, sem Sætta tilskipanir undanskilja sorlikum (sjá C) blf. 43—57) se sætt gjørd vareygdarlaust um skuldir vid Gjaldkjera Konúngs (sjá blf. 86), eda um þau mál, sem serhverri Nefnd ecki vidkemur vid ad sást (sjá B) blf. 41—43, og skir. gr. blf. 51—52, ellegar um óleyfilega hluti um ad sættast, t. d.: um útsvar á okurrentum (sjá blf. 40), eda um fullkominn hjónaskilnad, um sakamála sekt, og loksins se Umbodsmadur málsparts þess, sem ecki mætir ómyndugur, illa kynntur, slæmur eda máskie løgselldur madur, og hafi ecki gylda, skýlausa Fullmakt ad sýna, — sama er, þá mál er komid til løgsóknar, ef sætt er gjør vid Talsmann, er ecki hefir skýlaust umbod til sætta frá þeim, hvers mál hann verja á edur sækja — þó er ómerkast, ef annarhverr Forlikunarmanna er þrætunni sjálfur vidridinn, eda ødrumhverjum Málsparta framar venslladur, hinum óvitandi og ómtalad, en §. 34 Sætta Tilskipunarinnar frá 1797 (sjá og §. 35 med skir. gr.) leyfi honum vid sætt þess ad sást, eda se honum

mótmælt, þegar hann samt vill sletta á Sætt, má allt þvílikt og fleira telja med verulegum brestum, er gjöra svo lagadar sættir ógyldar, og megi opt olla Nefndunum áfjæru.

Ad sönnu hafa nockrir efad, hvert dóms eda Yfirvalds urskurdar muni vid þurfa, til ad ógylda þvílikar sættir, þar Canc. br. þ. 18da Maji og 17da Aug. 1799, álita nockrar af þessu tagi, sem ógjördar, (sjá No. 1 í skír. gr. bls 51—52) og Canc. br. 21ta Sept. 1805, (sjá skir. gr. til §. 35) band ad leggja mál, i hverju Sættanefnd þókti ógyld verid hafa til samninga, til annarar Nefndar á ný, en bædi Canc. br. þann 5ta Nov. 1796. (sjá bls. 54—55) en einkum Canc. úrskurdur 28da Dec. 1816, (sjá bls 87) og reglan eptir NL. 1—6—15, vyrdast ad gjöra dóms veginn loglegri og vissari, og ad hann því se nu af Cancelliinu valinn, sem hentugri til ad ógylda sættir, vegna verulegra bresta.

Póliti og Gjesta-rjetta önnur Sáttargjördir hafa öldungis sama gyldi, sem Sættanefndanna, eptir § 19 og 30, (sjá bls. 41 og 83). En — Sáttargiordum, sem vid adra Rjetti eru þessa og þær reglulegu Sættastiptanir semjast, má ecki med adför fullnustu veita, nema þær med dómi stadfestar verdi. Canc. bref 31ta Jan 1801 og 4da Maji 1802. (sjá skir. gr. vid § 19, bls. 41—42).

Eptir þessari 30tu grein (Tilskip. 20ta Jan. 1797) og Canc. br þ. 17da Dec. 1799, á allt eins ad framqvæma útlag eptir Sætt, (fyrir Sættanefndum) eins og eptir Dómi, því er útlags kostnadur vid hvert um sig hinn sami. En sá, sem útlags beidist, eptir Forlíkun, á aptur adgáng til útlags kostnadar ad þeim, sem lætur útlag hjá ser framfara. Canc. bref. 28da Sept. 1799.

Utlag eptir forlíkun (í Bjørgvín) fyrir kröfu allt ad 10rdla virdi, band Kóngsbr. 21ta Dec. 1798, ad framfara skyldi eptir Kóngsbréfi 30ta Aug. 1743, sem fastsetur 16 ß til Undir-fógetans, og 8 ß. til hvers af vottum þeim, hann med ser hefir, og skal hann útgefa þá utlagsgiørd án frekara betalings, skrifada á 1½ ørk óstimplads pappírs, en innfæra þar. giørdir í gegnumdregna og af Yfirvaldinu innsiglada bók (sama kynni hjer og mega vid ega).

§. 31. Ahræri Sættin Skuld, eda lykti med skuldbindíngu til peninga útlata, skal til þeirra áqvarda vist tímabil, eptir Málspartanna samkomulagi. En áhræri hún vissa athøfn eda verk, sem framqvæmast á (t. d.: ad veita burt vatni, hlada girdíngar, rydja veg eda þess-háttar), þá ber vid samníngin ætíd ad áqvarda ánægjanlegt og vel tilhlýdandi þvíngunar-medal med bótum, sem gjaldast ega. svo framt þad áskilda ecki verdi fullgjørt (í tíma), svo ad málid fullkomlega og eldúngis leidist til lykta.

Hvílíkann frest til peninga útláta í einu, eda smámsaman, í vissum gjalddøgum megi um semja og hverninn, er sýnt í skír. gr. til §. 30, bls. 83 — 84 eptir Plak. 13da Aug. 1798.

Þar Sáttargjørdir, eptir §. 30, hafa krapt vid óraskanlegann Dóm, og þær opt semjast um skuldabref, hverra upphæd og krafa þar med innilykst í Sættinni, ber þeim ákjærda vel ad minnast, ad þessi bref verdi annadhvert framløgd fyrir Nefndina, og af henni, eptir ákomna sætt, uppáskrifud og honum þar í stad afhendt, eda þau opinberlega ónýtt, samqvæmt NL. 1—22—36, eda — sem þó vera ætti og optast mun — seu þau ecki

þar vid hönd, ad þeirra brefa, sem úr því ad nockru eda öllu leiti ógyldra, þar sættin kemur, semfullgyldt skjal í þeirra stad, verdi í Sáttargjördinni minnst, svo hann ecki óttast þurfi, ef öref þau flækjast fleiri manna á milli, eda afhendast ödrum, nýa krøsu sídarmeir eptir þeim, ofan á Sáttargjördina, eda þann fyrirslátt, ad þunnur Skuldabref sen

Sættanefndir eiga ad senda vidkomandi Sóknarprestum í hvers árs lok, vitnisburdi um þær bætur, sem Málspartar vid Sættir fallast á ad gjalda til fátækra, svo ad vissa þar um hafist, og ad þær bætur komi í fátækra inngjalds reikning. Canc. br. 19da Jan. 1799. Sama gyldir og vegna sömu ástædna, ef fátækum er eitthvad gefid af þeim, er þrátta saman, undir ödru enn bóta nafni, medan sætt er samin, t. d.: viss peninga hjálp — hverja ecki væri af vegi fyrir Sættanefndir ad útvega fátækum á stundum, þá yfirsjón beggja Málsparta vyrdist vidlík.—

§. 32. Mál þau, sem koma fyrir Sættanefnd, skulu vera útkljád og til lykta leidd innan 4ra vikna, frá því þau vóru fyritekin vid hana. Lengur má ecki á þeim standa, nema bádum Málspörtum um semji, eda Stiftið þursi med vitnum ad fá, því þá sé adfarid eptir 2ars Kap. §. 10. C.) (bls. 30).

Í Kaupstödum á þetta ad skje innan 8 daga. Tilskip. 10da Júl. 1795, §. 45. Þegar búandi madur er á ferdareisu til útréttinga, og verdur á medan kalladur fyrir Sættanefnd, en er ecki heimkominn, þegar málid á fyrir ad koma, og getur því hverki mætt eda mæta látid, þá má Sættanefndin, þó áklagarinn samþycki þad ecki, fresta málsins fyritekt, til hennar næstu samkomu, ad

8 daga fresti (hjer líklega lengri eptir þörf og ásig-komulagi), svo að sá nefndi, sem ecki veit hvað skjed er í fjærveru hans, fái sjálfur mætt fyrir Sættanefndinni. Canc. br. 14da Jún. 1806. (Komi hann seinna heim, eda væntist um seinnt, eda fái faratálma annan, verdur fresturinn þar eptir eflaust að lagast eda lengjast.)

Út af þessari 32ri (§) grein hafa ordid tvær spurníngar: 1.) Hvert Sættanefndinni bæri sjálfkrafa að skjóta Sætta tilraunum á frest, þegar málspartar annadhvert vilja skírskota til vitna, gagnvitna, eda annara løglegra skilríkja, er þeir útvega vilji, þegar hverugum kjemur saman um rjettar máls ásædur eda røksemdir, ellegar annarhverr øldúngis neitar grundvelli ákjæru hins eda undanfærslu? 2.) Hvert Nefndin leysa megi þann frest, þá annarhverr Málspartur beidist, til vitnaleidslu eda skilríkja útvegunar, þó hinn mótmæli?

Í tilliti til ens fyrra, verdur audsjed að Nefndinni ecki er skyldt fyrir þá orsök sjálfkrafa sætta samníngum að fresta, þó henni leyfist það; þar henni aldrei ber neitt að úrskurda um málið, fyrst hún enga løgsøgn hefir, hvert nockud eda eckert upplýsist med tilvitnudum skilríkjum, og vitnaleidslum, heldur má reyna án þess að ákoma sætt, med þeim máta og tillögum, sem nefndar eru bls. 4—8 og í Nr. 8 bls. 81—82. En—komi bádum málspørtum ljúflega saman um frestinn, leyfir §. 32 hann ætíd til vitnaleidslu. Nefndinni leyfist þó opt sjálfkrafa frest að gefa, og er hjer talid rjett á undan eitt dæmid, en eptir Sætta tilskipun frá 1797, §. 32, er augljóst, að hver Sættanefnd aukþessa hefir vald til sjálfkrafa, eda þó enginn beidist, heldur jafnvel mótmæli, að fresta tilraunum svo, að þó lokfins leida megi hvert mál til lykta innan 4ra vikna, hvad allmørgum Sættanefndum erlendis er jafnvel tamt, sinndum vegna málasjølda,

Þar sem Þær í einn ecki sá oll yfirteckid; skunduin mástie án serlegra Þeckstra orsaka, hverjar Þær ecki heldur skyldast til ad nafngreina, eda um Þvílíkann frest ad rjettlæta sig.

Orsakir til Þesshattar frests, sem Sættanefndir Þanninn sjálfkrafa eda óbedid, og jafnvel Þó móti verdi mælt, veita, bædi eptir rjetti og skyldu, kunna opt margar ad vera, t. d.: sú, sem skir. gr. vid §. 32, bls. 93, og Canc. br. 14da Júnii 1800, tilnefnir, sjarlægd Þess áklagada á ferdareisn, sjúkdóms- og onnur í §. 26, og í skir. gr. til Þeirrar greinar bls. 69—73, talin løgleg forsøll, sem giøra kunna Þeim ákjærda ómøgulegt sjálfum ad koma til Sáttafundar, eda sá ser í tíma hentugann umbodsmann fyrir sig, eda útbúa hann med vel yfirvegadri gyldri fullmakt, t. d.: ef nockurr af sótt eda rænuleysi í sjúkdómi, er til Þesshattar rádstafana, lítt- eda ósær; sømuleidis Þegar ølvadir koma á sættafund (sjá skir. gr. No. 2, bls 76), eda málspartar verda of ørir og brádlyndir vid samnínga, svo Nefndin finnur hentugt ad fresta Þeim til seinni tíma, Þá bádum rennur brædi, og Þeir fá tóm til sanngjarnari og sídari samnínga yfirvegunar, eda ef Nefndin med bidinni treystir á betri Sætta-afdrif; ellegar vill — Þó skyldan Þess ecki krefji — unna Þeim ákjærda eins og áklagaranum tóms, til utvegunar vantandi skilríkja, sem Mótpartur reingir til vera eda fáanleg, og hafnar Því sætt á medan; en fresti til vitnaleidslu leyfir §. 32 útþryckilega og Tilskipan Þ. 20ta Jan. 1797, um vitnaleidslur sjá §. 10, C) bls. 30. Til Þessara er fresturinn ecki heldur bundinn vid 4ar vikur, eins og annar frestur eptir §. 32, hverr Þó Þá ad eins leyfir Sættanefndum ad veita hañ lengri, ef bádum Málspørtum svo umsemur, en allt ad 4um vikum vyrdist Nefndinni saklaust og heimilt óbedid, sjálfkrafa, og jafnvel Þó móti se mælt ad skjóta málum á frest;

ætti hún þó aldrei að temja sér sætta tilraun að fresta, af þúnglisi, eða án þess góða tilgángs og vonar þar við hélður að fá sætt framað; heldur þá að eins, þegar aðrar fyrrtaldar orsakir eða forföll ráða einkum til að fresta sætta tilrauninni, hvað þá æ er vissara, enn að eins að koma skyndi-náfni á þær í óhæfilegann tíma: því, verði skyldu Nefndanna ecki fullnægt með alúð, gaumgiæfni og vidleitni, eptir því sem hentast vyrðist, optar enn einusinni að reyna Sætt, vottar það enn minni Skyldurækt og meira þúnglisi að hroða því verki af í hasti, til þess að komast hjá ómaki þar við optar að fást, og umturna svo reglunni í gagn-stæða: að nóg þyki vel ef nóg gángi fliótt.

Það er auðvitað, að þar Póliti- og Gjesta-rjettir eptir §§. 17-19, og Canc. br. 24da Dec. 1796, eru siálfir Sættanefndir (siá skr. gr. til §. 40), hafa þeir og vald til eptir §. 32, Sætta tilrauninni eins að fresta, svo sem helzt vyrðist hæfa þeirra mála eðli, sem þeim Rjettum ber um að dæma, þó svo að engra Rjettur þar með spilliſt. Þar uppá standa og nockrir Yfir-rjetta-dómar.

A meðan Tilskip. þ. 26ta Nov. 1731, eins og eg tilbendt hefi bls. 25, ecki er hier lögleidd, sýnist varla hier í landi mega verða ágreiníngur um, hvört leyft se við Sættanefndir að fresta málum um vexil- skulda-bréf, lengur enn §. 32 tiltekur, þegar báðum málspörtum þar um semur? en verði þesshattar bréf og þessi Tilskipan hjer síð-armeir lögleidd, kann eg, orsök hjer í skr. gr. bls. 24—29, nockuð gjörr að lýsa þeirra eðli og rjetti, hvar til eg vísa þar framar, og skil ecki annað, en að málspörtum se leyft að fresta Sátta-lokum um vexil- skulda-brefa mál, sem um hver önnur skuldamál, meðan báðum um semur, eins og með þesshattar mála þrætur leyfilegt er við Rjett-inn, án þess að vexil- skulda-brefið hjer tapi

krapti við þá bið, meðan á Sættaprófi stendur, heldur að eins Rjettar tilkalli til hærra rentugjalds frá þess gjald-daga, enn eptir ødrum skuldabrjefum.

Í síðari spurníngarinnar tilliti hefir Nefndin, þó sá ákjærði beiðist frestar til þessháttar gagna og vitnaleiðslu útvega, alls enga skyldu, eða jafnvel heimild, án ákagarans samþyckis, sætta tilrauninni fyrir það að fresta, lengur enn § 22 leyfir, bæði af sømu orsøk, sem nú var talin, að henni alls eckert úrskurða ber um þeirra skilríkja gyldi á síðan, líka og einna helst af þeirri, að sá ákjærði eða sekaði, annars fengi þar með markverdt meðal til að spilla rjetti síns mótparts, auka kostnað hans, máskje ár frá ári draga málssókn og útsvar sitt honum til mesta baga, skjóta sjer undan sekt eða úrlátum og hafa ótal krókalaga brøgð í frammi; t. d.: einn er ákjærður um skuld, og neitar að hún se sønn, ef skýlausa handskrift brestur, eða þó hún se til, fyrirber, að hún útborgud se; qvedst vilja leiða þar um vitni, máskje eitt í hverjum Landsfjórðungi, eða úr fjarlægum álfum, máskje í ødrum løndum þar um fá skilríki; fái hann nú, mót áklagarans vilja, frestað sætta tilraun yfir 4ar vikur ept'r §. 32, má þessi ecki á meðan løgsækja hinn, sem þá máskje í lánga tíma, eða svo árum skipti, situr inni með áklagarans eignir honum arðlausar og til mesta baga; loksins kjemur einhver vitnaleiðsla fram, sem áklagarinn finnur ónóga, ómerka, eða þanninn að hann øldungis mótmælir henni. Nefndin hefir samt enga løgsøgu og má ecki neitt hjer um meta, en — sá ákjærði læst nú vilja betri skilríki útvega, beiðist því á ný fresto þar til; líður svo máskje enn 1 árs tími til ónýtis búrt hinum til meins, en — þá ber sá áklagaði loksins fyrir, að þó handskriftin se ecki innleyst, se hún samt ógyld, svo sem útgefin af sjer á ómyndugs

ugs aldri, og krefur enn frest til að sanna það með útvegun skírnarseðils síns frá öðru landshorni, máske öðru landi eða ríki o. s. frv. Allt eins kann hann að krefja af áklagaranum fyrir Sættanefnd að sanna hvað eitt, sem þessi ákjærir, og, sem draga kynni Sættir eða málssókn, ef josn væri skylda til þess, sem síðar fyrir Rettum, svo Sætta tilraunum eptir því fresta mætti. Beiðist þar á mót Aklagarinn frests, þarf ecki samþycki þess á kjærða til hans, þurfi hinn unauðsynlega að gefa sig við vitnaleiðslum fyrir Sátta tilrauna lok, ser sjálfum til skilríkis útvegunar í því sama máli, sem §. 10. c.) bls. 30, gjörir ráð fyrir og leysir, en skír. gr. hjer við §. 32, bls. 94—95, tilgreinir þó einstök tilfelli, þeim ákjærða í vil, sem biður Sættafrests, þó áklagarinn honum mótmæli. Það vyrðist og sem áklagaranum ætti þann frest að veita, sem hann beiðist, einkum þar í hans valdi er, aldúngis að sleppa allri málssókn, og þess vegna á samt sættaleitun, eða að skjóta rjettargángs byrjun á frest og á meðan Sættum. En ángri hann þann ákjærða eða mæði, með fleirum óþarfa fyrirkjöllum og fundum til Sætta, og hefji þó ecki gegn þessum málssókn, er þeim ákjærða gefið að kalla hann til Sættanefndar samnínga. Eins er það í valdi þess ákjærða en ecki áklagarans, þegar hinn framber þau mótmæli eða undanfærslu rök frá ákjærunni, sem áklagarinn finnur gyld, ef sönnuð yrðu, og girnist því að hinn það gjöri áður enn til málssókna kemur, þá að öðlast frest þar til, fyrir Sáttaprófs lok, vilji hann á þetta fallast, og frestis þar til beiðast, því þá er þann ákjærða í þeirra mótmæla tilliti að álíta jafnann áklagaranum að rjetti til þeirra sönnunar, en þótt engin Sættanefnd megi hann þar til skylda. Sama er, hefði hann henni samtengda gagnsök mót áklagaranum, því þó engin sætt komist á um hennar til-

 efni,

efni, má Sætta tilraun þar enda, vísa máli því til Rettar, og þar sækja það til dóms, án þess að bíða fresstaðra Sættaprófs loka eptir aðalklögun-inni. Eins vyrðist hann þá, ef beiðist, jafnlíklegur hinum, þar sjálfur er áklagari orðinn, til að oðlast frest við Sættanefnd til vitnaleiðslu og skilríkja útvegunar, þó aðal-áklagarinn honum mótmæli, því Dómarinn, en ecki Sættanefnd, á vald til að meta nauðsyn eða óþarfa þesskáttar frests eptirá, líka, ef beiðst er, við Retti, meðan á þvílíkra gagnsaka Sætta tilraunum stendur; sömuleiðis að sekta við Dóm óþarfar beiðslur frests til málalengingar og til útdrags mótpartinum.

Þó nú §. 10, hjer að framan (sjá c.) bls. 30), og Tilskip. um vitnaleiðslur þann 20ta Jan. 1797, leyfi útþryckilega, til vitnaleiðsla að fresta birjuðum sátta tilraunum, vyrðist, með sama skilorði, allt eins rjettilega fresta mega sætta samningum, til útvegunar annara merkis skilríkja, svo sem: skoðunargjörða, jarða-skjala, lögfestna, dóma og annara opinberra skjala, þegar mean ágreiningur uppris málsparta á milli, þar Sætt málsins opt má ríða á þeirra gagna yfirskoðun og framkomu ef ljúflega býðst, þó Canc. br. 14da Martz. 1807, leyfi ecki Sættanefndum, að krefja þau framlögð eða sýnd, sem fullkomna skyldu, þeim ber ecki heldur neitt að dæma um þeirra skilríkja gyldi eða ógyldi, rjetta eða ránga form, þar enga lögsögn hafa, og eiga því ecki þar með að gjøra sig grunsamar um málafylgi, heldur eptirláta Portunum þetta að meta, en fylgja heldur reglunni í No. 8, bls. 81—82, með Sætta tilögur, þá verður og grundvöllurinn til leyfis um frest til vitnaleiðslu, og til þeirra merkis gagna útvega, á hverjum sætt mála ríða má, allur hinn sami; frestur þess vegna ecki eiga að ønndrast við §. 12 Sætta Tilskipunarinnar frá 1797, sem að nockru leiti vill, að skoðunargjörðir á þrætustøð-

um gángi á undan. Sætta tilraun — og þó að nockru leiti — og jafnvel heldur, óskar að Sætta-nefndir fáist til þar að ransaka og semja um mál, bannar því ecki fyrst eptir Sætta-próss birjun, að útvega þvilík skilríki, nje heldur önnur jafn-áríðandi. Eidfestist nockur þeirra eptirá, verda þau og að nockurskonar vitnaleidslum þarvið.

§. 33. — Þessi grein leyfir að brúka slett-ann og rettann óstimpladann pappír til allra skrifta til Sættanefnda, frá þeim, eins og að-gjørda við þær. En, þetta leyfi hefir Island enn þá í øllum málefnum, svo þar um þarf ecki á medan að fjølyrda. —

§. 34. Sé Forlíkunar-madur nockurr sjálfur Málspartur í máli, sem koma á fyrir hann, eda sé hann skyldur eda mægdur nockr-um málsparti, svo nákomid, sem í annann lid, skal hann í fyrra tilfellinu strax víkja úr sæti í Nefndinni, en í því sídara, spyrja hinn máls-partinn að: hvert hann vilji hann gefi sig, eda ecki, af med málsins sættun, þó hann svo vendsl-adur sé mótparti hans? Mæli hinn þá eckert á móti, má hann vid vera, þar ské má, að hann, sem gódur og valinkunnur madur, fái heppilega áunnid sætt vid frænda sinn; en girnist Mót-partur þessa að hann víki, gjørir hann þad.

Med verulegum brestum Sætta, sem veikja mega gyldi' þeirra, er sýnt bls. 89, að ná-komnari skyldugleiki eda mægdir, enn hjer greinir, vid annanhvern Málsparta, af hverjum tengdum hinn ecki vissi, nje var af Forlíkunarmanni frædd-

ur um þær, eda spurdur: hvert hann fyrir það mótmældi þessa adgiørdum? giøra mega Sætt ógylda, ef þessvegna er áfrínd.

§. 35. Þegar einhverr Forlíkunarmanna af þessum orsøkum, eda vegna annara løglegra forfalla, ecki gétur setid í Sættanefnd, skal sá Forlíkunar-madur, sem eptir er, annadhvert 'insamall, eda med ødrum gódum manni, sem 'ann þar til kýs, leida þesshättar einstakt mál til lykta.

Í stad þess Forlíkunarmanns, sem víkur burt úr Sættanefndum, sem Amtmenn á landinu í Danmørku, sett hafa, ega vidkomandi Amtmenn þar annann ad útnefna; því er hier rádlegast þeim Forlíkunarmanni, sem eptir er, annadhvert ad velja sér annann velgreindann valinkunnann mann til hjálpar med Sættagjørdina, eda þó helzt, ad beidast annars hjá Amtmanni þar til útnefnds, þar Canc. br 31ta Okt. 1795, fyrirleggur þetta, med því ad auglýsa þar hjá ad §§. 47 og 48 í Tilskip. frá 10da Júlii 1795, sem eru sama innihalds, sem nærst undangengnir § 34—35, áhræri ernúngis Kaupstada Sættanefndir, í hverjum fleiri Forlíkunarmenn sitji.

Se Amtmadur sjálfur Málspartur, ega allir þeir Forlíkunarmenn hann sett hefir (sín vegna í Amtinu eptir §. 2), ad leida þesshättar mála Sáttargjørd hjá sér, en þá á nærsti Amtmadur ad tilnefna adra Forlíkunarmenn í því máli. Canc. br. 16da Apr. 1796. Þanninn ónýtti Cancelliid med Urskurdi þann 31ta Sept. 1805, Sætt áhrærandi útbyggingu frá Jørdu Barúns í Sjálandi, hvar hann á gótsi sínu var sjálfur Amtmadur, samda vid hans útnefndu Sættanefnd og baud málid á ný til Sætta ad

leggja fyrir adra Sættanefnd, er sá reglulegi Amtmadur Amtsins tilnefut hafdi. Fyrri Sættin vard þar hjá, sem øldúngis ómerk, med Landsyfirrjettardómi sidar álitin ad vera alls ekkert skuldbindandi, sem samningur. Sama ber því ad se þar, sem Amtmadur þessara orsaka vegna ekki gjetur sjálfur stadid fyrir Sáttargjørdum, í því umdæmi, hvar hann eptir Tilskipun þann 20ta Jan. 1797. §. 2, á sjálfur annars þeim ad stýra.

§. 36. Amtmenn yfirskodi náqvæmlega Sættanefnda bækurnar, þegar þeir ferdast um Amtid, og riti í þær, ad þær séu þeim sýndar.

§. 37. Í hvers árs lok ega Sættanefndir ad senda Amtmønnum lista yfir þau mál, sem á umlidnu ári eru fyrirtekin og útkljád vid hverja Sættanefnd, og þar hjá géta þeirra mála. sem Sætt er ákomin í, og hverjum helzt vísad se til Réttargángs eda skotid vid hana á frest. Þessa lista skal sídan senda øndverdlega hvers árs, til ens danska Cancellíis, hvers skylda se ad leggja þá fram fyrir Konúnginn, svo hann metid fái verkun þessarar velgjørandi Lagasetníngar, og vyrdt þá, sem í því tilliti med sérlegu fylgi og kostgæfni framad hafa þetta góda málefni.

Políti-rjettir skulu árlega gefa Amtmønnum somu skírslu um mál vid þá fyrirtekin og útkljád (og sama er því vafalaus skylda Gjesta-rjetta) Canc. br. 23ja Dec. 1797.

Einúngis þarf tølu málanna til ad nefna vid allar þessar árlegu fráskírslur, og hversu mørg þeirra hafi verid fyritekin, forlíkud, frestud eda vísud til dómstóla. (Se ekkert mál fyrir Sættanefnd komid það ár, þarf eins vitnisburd þar um

ad gefa.) En— Amtmønnum er með sama Canc. br. falid á hendur, frá vidkomandi Dómstólum ad útvega árlega skírslu og innsenda um, hversu mørg mál af þeim, sem Sættanefndir hafa til þeirra vísad, eru loks fyrir þá stefnd. Sjá sama Cancellíbref.

§ 38. Sæki nockurr um Fátæktar-styrk eda ókeypis løgsókn (*beneficium paupertatis* eda *processus gratuiti*), á Yfirvaldid ætíd ad taka Sættanefndanna skírslu um, hvert sá sami hafi tjád sig fúsann til sættar med sanngjørnu móti eda ecki, og láta hana fylgja tillegum sínum med beidni hans; því ecki vill Konúngur, ad **prætugjarnir menn** ødlist þessháttar velgjørnínga.

Hjer er nú það í skír. gr. til §. 28, No. 6 bls 78, tilvísada tilfellid, í hverju Sættanefndum er leyfilegt ad vitna nockud um samninga sannsýni eda ósannsýni, þrætugirni eda sáttgirni Málsparta, þá sætt kemist ecki á, nefnilega: þá Amtmadur í þessu ofanskrifada tilliti krefur þeirra skírslu hjer um; en øldúngis ecki er það leyst med einu ordi þessa ad minnast í vitnisburdum, med hverju málum er vísad til Dómstóla (sjá skír. gr. No. 6, bls. 78). Og svo í því tilliti, þá Amtmadur krefur þessa vitnisburdar, ber Sættanefndum alla varúd og góde samvitsku til ráds ad taka, ad þeir ecki spilli saklausra rjetti med óverdskuldudu mótvitni, einkum þar flestra þeirra þecking á løgum og rjetti manna er hjer svo tæp, ad hvad þeim þyrdast má rjett og sanngjarnt, er opt og tídum þessu gagnstædt fundid vid Dómstólanna álit eptirá, auk þess: ad sínum augum lítur hverr á silfrid.

Vilji svo til, ad einhverr, sem fengid hefir fátæktar styrk med gefins málssókn eda vørn í

borgaralegu máli, eda þvílíku, sem leyft er ad sætta, taki loks sætt, ádur enn Dómur fellur á málid vid Ríettinn, eru málspartar ecki med sætt þeirri friádir vid málskostnadar útsvar ad nockru eda ölln leiti til þess, er Yfirvöld setja til málssókna í þeim málum, svo ad kostnadur sá lendi á almenníngi eda opinberum fjárhirdslum, hvers vegna Sættanda ber þar um ad kresja Dómarans álit, svo málinn verdi eptir sætt Málsparta ad ödru leiti fráfallid, því annars kann þar af ad rísa nýtt kærumál og lögsókn.

§. 39. Hafi nockurr med stödugri framgvæmd og rádvendni í 8 ár haldid áfram ad þjóna, sem Forlíkunarmadur, er honum heitid því sambodnu heidurs- eda vyrdíngar-merki.

Ara-tíminn einn vyrdist hjer til minnst ega ad verka, heldur framqvæmd, dugnadur og rádvendni í sættun margra og mikilvægra mála. Því hafi engin, eda því nær engin mál komid í 8 ár fyrir þann Forlíkunarmann, sem opt má henda hjer á landi, hvar uppá og þecki nockur dæmi, er lítid eda eckert og til lítils eda einkis af honum unnid.

Vid þessa grein vil eg ecki undanfella ad benda til, hversu annt vorum mildustu Konúngum er og hefir verid um, ad fyrirbyggja misklídir og útarmandi lögsóknir medal þeirra þegna med Sætta stiptunum. Vel vitandi hversu örir einfaldir menn í lögum, misjafnlega lyndtir og sinnadir, opt verda kunna, bædi til rángsleitni og áreitinga vid adra med lögsóknum og eins vegna vanvitsku í lögum til ad útarma sjálfa sig med útdragssömum lagadeilum, sem opt vekja innbyrdis ósamlyndi í sveitum, hjeta hvísar Ríkisstjórnir ser annt um ad leida öra og einfalda á hentugri fridsemdar veg, med því, eins og Preussa Konúngur, ad nefna til lögvitra Embættismenn, sem fyrir

fram álita mál manna, og leggja þeim heilræði, er fávísir eru og sem þeir finna lakann málstað ega, að hætta ser ecki úti logsóknir. Í Danaveldi komu 1795 og síðan Sættanefndir í hiña stað, sem leida skyldu til fridar og forlíknnar, fyrirbyggja málaþrætur og með þeim útormun málsparta, en fá þó mál gódmótlega lyktuð kostnadarlaust að mestu ó-rafkanlega eins og með ædstum Dómi. Að sönn ecki með laga fortølum og þeirra heimfærslu, eins og eg tilbendt hefi bls. 4—8, til hverra færstir Forlíkunarmanna, einkum hjer í landi, eru með æru færir, heldur með gódmótlegum og sanngjørnum fridsemdar tølum og þar með jafnan ørleika þess, er opt æsir málsparta upp til óviturlegs málavastiurs og egin óheilla *). Þessarar fødurlegu umhyggju vorrar Ríkisstjórnar er sjálf þessi 39da gr. Sætta Tilskipunarinnar frá 1797, medal annars ljósastur vottur, þar sem Konúngur heitir þeim Forlíkunarmønnum, er láta serlega framqvæmd og rádvendni í ljósi vid Sætta stiptanir í 8 ár, fremd og heidri; en að fá Sættir framadar til að koma í veg fyrir óþarfar og kostnadarsamar málaþrætur manna vid Rettarganng, segir Loggjafarinn í inngángi Sætta Tilskipunarinnar fyrstu, þ. 10da Júl. 1795, vera „eitthvert hid ánægjufyllsta takmark ósta sinna, og landsfødurlegañ tilgáng siñ," og í iñgángi þeirrar seiñi þ. 20ta Jan. 1797: „að Hann vænti eptir að þegnar sínir muni medtaka Bodord Hans um Sætta tilraunir med þacklátsemi." Þau votta og øll,

*) Við ádur gefin heilrædi, bls. 4—8, 81—82, um líklegasta adferd vid Sættanir mála, skal eg enn bæta því: að taka serhvern málspart einslega og einstakann frá til samninga, svo hinn hlýdi ecki á medan á, en báda loksins í einu, ádur Sátta tilraunir lyktast, hvert sem sætt þá kemst á edur ecki.

eptir framantöldu, áhyggju Ríkisstjórnarinnar ad frama, sem mest þetta öllum mikilvæga verk. Því fieck eg ecki heldur valid mjer annad almennígi markverdara efni, løgum vidvíkjandi, ad útskíra enn þetta, hví framar, sem flestir finna munu, er framanskrifad allt med athygli lesa, ad þad hjer einkum þurfi útskíringar vid, ef rettilega skal medfara, og ecki verda til skada í stadinn fyrir ad frama gagn.

En — þad er ecki nýtt, ad vorir Løggjafarar fundid hafi og þreifad á naudsyn þessa mikilvæga verks, því NL. frestja í 1 — 9 — 10 Talsmanna eida um: ad ecki skíli þeir aptra løglegum sættum manna, og í 1 — 5 — 7 bjóda þau Dómurum, þó þrætugjarn Málspartur sanni mál sitt og þess vegna vinni þad — eins og nú §. 26 Tilskip. 20ta Januar. 1797 tilteknr — en hafni sættum, med því ad sýna ecki mótparti sínum skilríki sín, þá hann þess beidist, til þess ad komast hjá løgsóknum — samt ad dæma þvílikann málspart til málskostnadar útláta. Hversu sá, er kallast til sætta samninga, en mætir ecki, á eptir §. 26 Tilskip. frá 20ta Jan. 1797, ad gjalda málskostnad, þó mál vinni, er sýnt bls. 70—71, og ad hann, sem þrætugjarn ásamt á bótum ad sæta til Jústitzkassans fyrir óþarfar þrætur, hvert bodord ný-útkomin Tilskipan þ. 11ta Aug. 1819, í §. 1. itrekar, og um leid í §. 2. áqvardar þessar vid Undirrettina eptir málavextum og ósáttgirni, frá 4 til 20rbdla, en vid Yfirretti frá 10 til 50 rbdla, allar í silfri. Líka bannar NL. 1 — 15 — 3, ad Sættabod komi nockrum ad gjaldi, þó þeim verdi ecki tekid, eda álitast megi, sem røksemd í málinn þeim sama á móti, og Sætta Tilskipan þ. 20ta Jan. 1797, §. 28 býdur: ad allt vid Sættanefnd framborid í málinn, ef sætt kemst ecki á, skuli álitast sem markleyst og ógyldt, þess vegna eckert retti spilla fyrir Sætta tilrauninu. Sama

Tilskipan leyfir í §. 13, ad forlíka ójafnaðar-mál, sem varda megi ærutjóni, og í hverju Konúngi bera kunna álitlegar bætur, og umbreytir þannig, málsportum til góðs og frúnar fyrir lögsóknum, NL. 1—22—8.

Vid B.) og skír. gr. til §§. 17—19, blf. 41—42, og vid §. 30, blf. 90, hefi eg sýnt, hversu Löggjafarinn hefir veitt ýmsum Rjettum og Stadar-yfirvöldum í Kaupmannahöfn vald til med Dóms krapti sættir ad semja manna á milli, til ad evda málssóknum og verndа þá fyri útörmun þar vid. En — auk þessa vettar §. 10, b.) blf. 29, hier ad framan, ad Skipta-fyrirrádendum er sama tilraun á hendur falin; líka er þeim Nefndarmönnum (Commissariis), sem þrætandi málspartar ödlast setta af Konúngi, til ad skjera úr misklídum eda búum ad skipta, sama umbodid med Plak. þ. 14da Jan. 1771.

Auk Rjettanna er einkum Stipts- og Amtmönnum í NL. 1—24—2, fastlega bodid ad reyna til ad jafna misklídir manna í öllum þeim málum sem má; eins med Plak. 30ta Okt. 1798, i einstöku tilfelli (sjá skír. gr. blf. 68; líka og Prófóstum eptir NL. 1—2—12, en þótt Tilskip. þ. 20ta Jan. 1797, í §. 10, eptir Canc. br. þ. 27da Jan. 1798, hafi frá Prófasta Sætta tilraunum framvegis undanskilid öll borgaraleg mál, svo þeim nú se einúngis leyfilegt þau geistleg mál ad sætta, sem sættast mega, en hver geistleg sen sýnir ljósast Tilskip. fyrir Island þ. 27da Nov. 1816, §. 4, nefnilega: einúngis þau, sem áhræra geistlegra Embættismanna skyldur eda framferdi í Embætti; þó yrdi enn þá eptir þessu, í krapti NL. 2—13—1, Prófasta skylda med 2ur Prestum, ad sætta Prests Eckju og Eptirmann þess falada Prests, um laun hins fyrir prestlega þjónustu um Eckjunnar Nádar-árs tíma, væri annars vafalaust, ad þessi grein, eins og margar

fleiri í NL. 2ri Bók, se hjer løgleidd og gyldandi; líka hefi eg vid §. 16, bls. 33—34, sýnt þá skyldu, sem liggur á ødrum Yfirvøldum og øllum Prestum med góðmótlega Sætta tilraun hjónabands mála, eptir Tilskipun þann 18da Okt. 1811.

Loksins bendi eg hjer til þess: 1.) Ad þó Skilriki framkomi um, ad Stipt- eda Amt-menn, Yfirvøld ønnur, Prófastar, Prestar eda Konúnglega tilskipadir Nefnda-menn, eptir fyrrgreindum lagagreinum forgefins hafi reynt ad ákoma Sætt, er engum Dómara samt leyfilegt í borgaralegum málefnum, ad taka mál undir Dóm, án undangenginnar Sætta tilraunar vid reglulegar Sættanefndir. 2.) Ad þó §. 10—13, og 16—19 Sætta tilskip 20ta Jan. 1797, legai nú øll borgaraleg mál talin í þessum greinum og þeirra skíríngum, undir Nefndanna adgjørdir, er fyrrtøldum Embættismønnum og Nefndamønnum fyrir þad enn þá leyst og skyldt ad reyna Sætt, eptir framan áminnstum lagabodum, þar Ríkisstjórnarinnar gódgjarni tilgángur allteins uppfyllist med þeirra og med Nefndanna ánnu Sáttargjørdum, sem þess vegna enn verda henni jafn-kjærar, sem ádur. Má þar til ljós røk draga af tilnefndri fyriskipun vid §. 16, frá 18da Okt. 1811, og ødrum í skíríngum vid hann áminnstum lagabodum bls. 33—34. Um þeirra gyldi verdur þó ad ødru leiti sama ad segja, sem um Sættir vid adra enn þá í §§. 17—19 áminnstu Rjetti, eptir skíríngu minni vid þessa sídustu grein, bls. 41—42, og vid §. 30, bls. 90 *). 3.) A

*) Vid þessa 30tu grein Tilskip. frá 20ta Jan. 1797, og mína þaradlútandi skíríngu, bls. 85, um Sætta Forrett og ordu vid útlegs, gjørd eptir þeim, verdur nú samt athuga verdt Cancelli Plakat nýútkomid frá 23ja Jul-

blſ. 34 — 35 hefi eg nefnt, ad Konúngs-Skatt-gjalda-mál hálfu ári eldri (frá Skatta- edur Manntals-Þíngi ad reikna), ekki mætti med adför án dóms útleggjast, heldur fyrst leggjast til Sætta tilrauna, og ef hún ekki ákemst, þá til lögsóknar. (samanber blſ. 50, No. 5). Nú hefir — eptir þad um hverttveggja hjer prentad var — híngad nýkomid Cancelli-Placat frá 25ta Júnii 1819, fyriskipad: ad útistandandi gjöld til Skóla- og Ljósmædra-stiptana og til fátækra framfæris, megi án dóms med adför útleggja hjá hánum, sem lágum, þó því ad eins, ad útlag þeirra gjalda framfari innan 1 árs frá þeirra gjalddaga, því annars mun þar um þurfa dóm til útlags, þegar þanninn úreldast, og eiga þá þessháttar mál öll, þess vegna nú eins um tíundir og tolla, offur og dagsverk til Presta, Kirkna og fátækra, sem Kóngsbr. frá 11ta Apr. 1781 i §. 3, og Reglug. frá 17da Julii 1782 i §. 17, einnium Kóngsbr. 4da Júnii 1790, leyfdu án dóms ad útleggja, nú, eptir 1 ár frá gjalddaga, sem úreldt ur því til útlags fyrst ad leggjast til Sættar, en náist hún ekki, sídan til Dómstóla, ádur enn þessi þanninn úreldtu gjöld med adför innkalla megi, álíkt því, sem Tilsk. frá 18da Martz 1796 (sjá blſ. 40 No. 13) baud, um alla dóma, hverjum innan árs og dags ekki er fullnusta gjörd.

Þó nú undir sama skilyrdi reikna megi flest almenn gjöld eda áskilin verk til opinberra þarfa, t. d.: gjöld til Presta, Kirkna, Skóla, opinberra Stiptana (sjá blſ. 35, 40, 44 — 45,

---

1819, sem veitir kröfum öllum, er lög gefa Forrett i þrotabúum fyrir einföldum handskrifta kröfum, framvegis Forrett fyrir pant-setníngum i ödru fje enn fasteigna, þó, ad ósködum annars nú þegar fengnum panta-rjetti.

51), Fátækra og Ljósmædra, eins nú eptir §. 2. í Tilskipun frá 4da Aug. 1819, útistandandi opinber tillög, sem björgun manna í lífshásku staddra, krefja kann, t. d. við skipreika, jardelda, skridufoll, húsbruna, snjóflód og þesshattar stórkostleg og voveifleg tilfelli, en sem, ef fyrrnefnd yfir 1 ár ógoldin útistanda, úreldast nú til útlags, svo úr því beri mál um þau til Sætta ad leggja, eins önnur almenn gjöld og verk, t. d.: sakamála kostnadar útsvar, þínghúsa bygginga og vegabóta og brúagjörda kostnad, dýratolls gjöld etc, reiknast þó Lögmanns tollur framvegis med Konúngs Skattgjöldum ödrum, sem til útlags án dóms úreldast ad hálfu ári lidnu, en úr því ber um hans afgreidslu til Sætta ad kalla, (samanber bls. 34—35, Nr. 8); um hinna (eptir fyrrtjedu Cancellí-Plakati frá 25ta Júnii 1819) fullnægjngjörd, ad lidnu 1 ári frá réttum eda ásköldum verka eda gjalda eindaga, fyrst til Sættaprófs, sídan til Dóms ef vidþarf, ádur enn úr því fyrir vanhaldna fullnustugjörd þeirra verdi sektad eda gjöld þau med adför útlögd.

§. 40. Forlíkunarmenn og Skrifari Sættanefnda, sem bókina heldur og vardveitir (sjá §. 6, bls. 21), fá í ómakslaun 40 ß. (S. V.) hjá þeim er klagar, og 24 ß. S. V. hjá þeim áklærda (alls því 64 ß. S. V.), en einúngis þá, þegar Sætt kemst á, annars ekkert. Skrifarinn eignast ⅓, eda sá, sem fyrir skriftum stendur. Sé nockurr Málsparta svo fátækur, ad ecki megni þetta útgjald af hendi ad leysa, má Sætt ecki fyrir það bída. En vid hana má og allvel áskilja, ad annarhverr Málsparta standi þenna kostnad.

Eptir Plakati þ. 24da Júnii 1817 útgefnu, eru nú samt vid Kaupmannahafnar Sættanefndir af áklagaranum goldnir 24 ß. S. V. undir eins og klagan er Nefndinni afhendt, og er þeim ecki aptur skilad, þó Sætt komist ecki á; en verdi Sætt samin, bætir áklagarinn 16 ß. vid, en sá áklagadi lætur þá og af hendi 24 ß., semji þeir sjálfir ecki sdruvísi um kostnadinn. Er þetta samqvæmt Tilskip. fyrir Danmørku þann 13da Maji 1769. §. 4, á hverrar greinar innihaldi Sætta tilskip þ. 10da Júlii 1795, í §. 55, byggdi þenna gjaldmáta, og vitnar því til hennar. Þó mundi vorum Sættanefndum hjer ecki hendt þeirri reglu ad fylgja, án konúnglegs leyfis, sem liklega yrdi audfengid, þar Plakat 24da Júnii 1817 einúngis er fyrir Kaupmannahafnar Nefnd.

Í Gjestarjettar málum (sjálfsagt því og vegna sömu ástædna í Pólití-málum) eru þessir Rjettir sjálfir Sættanefnd, án hverra undangángandi Sætta tilraunar forgefins, rjettargángur ecki má leysast; því má alls eckert kaup fyrir setníngu þessara Rjetta heimta, í málum, sem forlikast. Rjettargángur hefir ecki heldur stad í þeim, fyrri enn þar um er úrskjád, og væri þad gagnstædt Sætta tilskipananna Anda, ef mál visud til sáttargjørda vid þessa Rjetti, yrdu kostnadarsamari, enn hin, sem koma fyrir reglulegar Sættanefndir. Canc. br. 24da Dec 1796. Hjer af er nú audsætt, ad þegar Sætt kjemst á, ber þessum Rettum sama kaup, sem Nefndunum fyrir Sætta tilraun, eptir §. 40, en eckert kaup fyrir Rettarhald; því þad reiknast fyrst ad birja, þegar Sátta tilraun til ónýtis er lokid; og þá ber eckert kaup fyrir forgefins tilraun, heldur eptir málavøxtum kaup fyrir þessi Rettarhøld eptirá, ef eckert verdur af Sættum. Eptir þessum reglum verdur því samt ad koma tvøimur, ad fyrsta áliti, ólíkum

bodorðum og røkſemdum fyrrtjeðs Canc. brefs þ. 24ða Dec. 1796 og annars úngra þ. 30ta Julii 1803, hvert ſíðara ſegir: að Dómararnir við Geſta- og þá Auka-retti, hverjum leyſt er með jöfnum krapti við Nefndanna að ſemja um Sættir manna á milli — ſem hjer á landi ecki eru aðrir Rettir enn Pólití- og Geſta-rettir, en í Danmørku þeir í ſkr. gr. blſ. 41—42 tilnefndu — ſeu ſkyldugir til, ecki ſem Forlíkunarmenn, heldur ſem Dómarar að reyna til að ákoma Sætt. Skuli því ſú Sátta tilraun, eins og hitt, ſem málſins meðferð að øðru leiti viðkemur, ritaſt í Rettarins Þíngbók, eptir því málið eptir ſtefnunni eða kløgun, er í Rettinum bókað. Sættiſt Málspartar þá, ſkal Sættaſkilmálana rita áſamt í bókina, og þar með lykta málið. En, ef ecki, ſe málinu framhaldið eptir þeirri útteknu ſtefnu eða afhendtu kløgun.

§ 41. Neyðiſt Forlíkunar-menn til að takaſt ferð á hendur til Nefndarinnar ſamkomuſtaðar, ſkal ferðarkoſtnaði þeirra jafna niður á Amtið með øðrum opinberum koſtnaði; og eins því, ſem bækur Sættanefndanna koſta.

Til þeſs að fyrirbyggja ágreiníng um, hvert Forlíkunar-mønnum beri ferðakoſtnaður, hvert ſem þeir ferðaſt lángt eður ſkammt til Sætta ſamkomuſtaðar, virðiſt Laganna Anda ſamqvæmaſt, að fylgja þeirri reglu, ſem Kóngsbr. frá 11ta Jan. 1799 (ſjá blſ 62), faſtſetur um ferðakaup Stefnuvotta, til angløſíngar kallſeðla, og ſem tjáiſt bera þeim einúngis þá, er þeir egi yfir eina mílu að ſækja

landveg, eda yfir hálfa sjóveg til þeirra er stefnast; þess vegna, ad Forlíkunarmønnum ecki beri ferdakostnadur, nema yfir eina mílu land- en yfir hálfa sjóveg ferdist heiman ad til samkomustadar Sættanefndar. Hjer í landi munu sjóferdir sjaldan mæta Forlíkunarmønnum, en ein míla landveg optarst reiknast þurfa. Eptir sømu vegalengd lítur og Plak. 21ta Martz. 1800, sem einúngis þá veitir Dómurum og Skrifurum vid Undirrjettina uppheldispeninga daglega, egi þeir til þingahalds í Saka- og Jústits-málum ad ferdást heiman ad til þingstadar fulla eina mílu vegar; en, med endurgjald ferdakostnadar í opinberum málum, hafdi í Nørvegi sama tillit til vegalengdar Tilskip. frá 20ta Aug. 1784, 2 D. §. 9, sem fyrr segir (sjá Handbók mína bls. 287); hvers vegna ádurgreind regla vyrdist samqvæmust elldri og nýrri lagasetnínga grundvallar ástædum. En — hvad nú se sanngjarnt hjer í Landi ad gjalda í ferdakostnad Forlíkunarmanna á hverja mílu, verdur — á medan útþryckileg lagabod þar um bresta, heutug voru landi og vorum tímum — ad selast áqvørdun hlutadeganda Amtmanns, fyrir serhvert Amt.



# Registur.

## A.

Blſ.



Barns,

## B.



## C.

Bls.

## D.



## E.

Bls.

G.



H.

---

*) Þess gjet eg hjer: ad eptir þad Handqver þetta var ad mestu fullprentad, kom út hingad med Pósti-skipi 1820, Cancelli-Plakat frá 25ta Júnii 1819, sem leggur gyldar ástædur til þess, ad þau á bls 108—109 tilnefndu verk, gjöld og tillög til ýmissra opinberra Stiptana og þarfa, sem á 1ta ari mega, án dóms, krefjast framqvæmd. edur af hendi látin, og annars med útlags þvingun, eptir 1 ar (frá gjalddaga), missi þeña útlags krapt, þess vegna þurfi Dóm þar til, eptir undangeugna forgefins Sætta tilraun, líkt ureldtum Námsdómum (sjá No. 13, bls. 40); því set eg nú þessi gjöld hjer No. 14, í náttúrlegri röd Registursins.

Bls.



## N.

## O.

S.

Vis.

## T.

| | | |
|---|---|---|
| Tillag. | tregdad um, til framfæris óekta børnum af fedrum og fráskildum konum og børnum af mønnum og fedrum, hvert og nær mál leggist til sætta og nær ekki | 35, 49, 84 |
| —— | hversu med adfør útleggist þessum á stundum af egnum eda kaupi hjúa hjá húsbændum . . . | 36 |
| —— | ávantandi, nær afplánist, eptir Tilsk. frá 10da Dec. 1790, en hjer nú med opinberri vinnu, eptir Kóngsbrefi frá 25ta Júlii 1808, §. 9. *) . | 36 |

*) Ad sønnu er þeim konúnglega Lands-yfirrjetti hjer á landi til handa komid Cancellibref frá 4da Maji 1816, sídan anglýst í sama Retti, sem tilkynnir konúnglegan Urskurd þ. 24da Apr. s. á., er bannar ad framqvæma straff eptir Tilsk. frá 6ta Dec. 1743, §. 14, hvert Tilskipan frá 10da Dec. 1790, fastsetur fyrir tillags-brest af fedrum óekta barna þessum til framfæris, nl.: erfidi í betrunar- eda Tukt-húsi um þann tíma, sem nefnd 14da grein (§.) tiltekur, edur um einn dag fyrir hvert ógoldid eins marks virdi (til hverrar afplánunar reglu §. 9 Kóngsbrefs frá 25ta Júlii 1808, mun og efalaust litid hafa), fyrri enn Konúngi se frá málinn skírt af Cancellíinu, og býdur hann þarhjá ad þeirri reglu fylgja skuli, hvar uppfósturs tilløg med óekta børnum, eda bætur eptir ødrum tilskipunum afplánast egi, en — sídan útkom og vard hjer ásamt þínglýst konúngleg Tilskipan frá 12ta Júnii 1816, um frekari áqvardanir vidvíkjandi fángelsis straffi vid vatns og brauds vidurværi, hverrar §. 5ti fyriskipar allstadar þetta straff, hvar ádur gyldandi løg fastsett hafi 6 mánada vinnu eda skemri í betrunarhúsi, edur á álíkum strøffunar-stad, þannin: ad serhvers

Bls.

Tillögur til Sætta þarf serlega varúð við 4, 81, 104
Tilsjónarmenn Rettvísinnar, ef láta mál hösða 43

mánaðar erfiði afplánist með 5 daga fángelsi við vatns og brauðs viðurværi eitt, og 6 mánaða vinna með 6 sinnum 5 daga fángelsi við þetta viðurværi. Þó hafa Dómstólar Íslands og Yfirpóld ecki álitið hærsinefnda Tilsk. frá 12ta Júníi 1816, enn þá að skuldbinda Ísland, eða vera hjer heimfærandi, bæði af því að hennar straff með fángelsi við vatn og brauð, álitist að vera Íslands ástandi ósamqvæmt straff, og sjaldan hægt hier víða að framqvæma, þess vegna og útþryckilega fyribodið í §. 9 Kóngsbr. frá 25ta Júlii 1808, líka af því að þetta síðarstnefnda Kóngsbref, er Íslandi sérlega útgefið lagaboð, sem í þessu tilliti er staðfest með serlegu Kóngsbrefi frá 3ja Maji 1816, §. 4, sem álitst ecki afmáð með hinni almennu lagasetníngu frá 12ta Júníi 1816.

Þó hefir Cancelliið með Umburðarbrefi þess til Yfir- yfirvalda frá 19da Okt. 1816, auglýst: að fyrrnefnd 5ta grein (§.) í Tilskipun þann 12ta Júníi 1816, egi að vera regla um afplánun frámfæris tillags óekta barna og fráskilinna eður yfirgefinna Qvenna, ellegar og hvar þær bætur afplánast egi, sem §. 14 í Tilskipun frá 6ta Dec. 1743 tiltaki, þanninn: að nú afpláni eins dags fángelsi við vatn og brauð, hvern 1 rbdl. S. V., sem í útsvar eða bætur áhrestur. En — þetta bref og boð er hjer hverki auglýst nje framar Ísland skuldbindandi enn sem stendur, enn fyrrtjeð Tilskip. frá 12ta Júníi 1816, þó býður það einúngis þá, eptir fyrrtjeðu Kóngsboði frá 24ða Apríl 1816, að leggja framqvæmd fyrrgreinds afplánunar straffs eptir Tilskip. frá 6ta Dec. 1743 §. 14, fyrst undir Konúngs Urskurð, þegar það lengri tíma enn 6

mánada nemi. (Merk: þessi athugasemd á ån- ars heima vid enda bls. 36.)

*) Þessi §. 2. býður: að serhver veitt uppreisn Dóma ellegar annara Retkar aðgjørða, skuli dáðlaus að 4ra vikna fresti frá hennar dagsetníngu (sjá Klpósteinn 1820, No. 3, bls. 33—34).

## Y.



Pag.

# Þ.

## Æ.



## Ø.





## Til Lesarans.

Vid framanstandandi Registur er athugandi:

1.) Ad einúngis Upphafs-tala bladsídanna, hvar á hvert efni er minnst, vídarst hvar er hér prentud, þó sama og máské enn greinilegar finnist útskírt á nockrum nærst eptirfylgjandi bladsídum.

2.) Ad vid þad eru á tilhlýdilegum stødum sumstadar tengdar skíringar-greinir og tilvísan laga-setnínga, sem annadhvert hafa gleymst framar, á réttum stødum, ellegar ný-innkomin lagabod, eptir ad mestallt Handqver þetta var prentad, gáfu tilefni til, og komust því ecki framar inn á þeim eginlegasta stadi, úr hverju Registrid því á ad bæta.

Þó verd eg enn í þessu tilliti hjer ad minnast þess: ad í útkomnum Frétta-blødum í Kaupmannahøfn, er þar nýlega auglýst Can-

ekki Plakat frá 9da Júlii 1819, er birtir konúnglegann úrskurd þann 23ja Júnii s. á., sem hæckar betalíng þann, er í Kaupstødum gjalda beri í Danmörku, fyrir auglýsíngu kallsedla til Sættanefnda, eptir Kóngsbréfi frá 11ta Októbr. 1799 (nefndu blf. 62) svo, ad hverr Stefnuvottur framvegis fái þar 8ta rbskilds. silfurs, fyrir sérhvern mann, hverjum þeir stefna, í stad 6 rbß. ádur, eptir tilfærdum laga-g einum vid §. 24, blf 62, sem því verdur framvegis ad álíta allt eins hér ad mega gylda.

Loksins bid eg Lesarana med athygli í Bókinni ad laga þannig eptirfylgjandi helztu.

## Prentvillur:

Blf. 24, línu 11, les: Forlíkunar málum.
— 38, — 12, — 1808.
— 54, — 33, — áskilin.
— 57, — 1, — eins þá.
— 66, — 18, — og eptirá.
— 84, — 31, — 1797 fyrir 1720.
— 96, les vid bladsídu tølu 96 fyrir 86.



